# VATNSDÆLA
# SAGA.

---

Útgefandi:

**Sveinn Skúlason.**

---

AKUREYRI 1858.

Prentuð í prentsmiðju Norðr- og Austrumdæmisins,
hjá H. Helgasyni.

# HÉR HEFR VATNSDÆLA SÖGU.

1. Maðr er nefndr Ketill, er kallaðr var Raumr. Hann var ríkr maðr, ok bjó í þeim dal, er í Raumsdal heitir, þat var norðarliga í Noregi. Hann var sonr Orms skeljamola Jötunbjarnarsonar norðan úr Noregi. En þá váru fylkiskonungar í Noregi, er saga þessi gjörðist. Ketill var ágætr maðr ok vel auðugr at fé, rammr at afli, ok hinn röskvasti at öllum mannraunum, ok hafði verit í hernaði hinn fyrra hlut æfi sinnar, en sitr nú at búum sínum sem aldr færist á hann. Hann átti Mjöll, dóttur Áns bogsveigis. Ketill átti son við henni. Hann var þorsteinn nefndr. Hann var vænn maðr sjónum, engi atgjörfismaðr var hann hvárki á vöxt nè afl. Hann var 18 vetra er þetta var tíðinda. þó var athæfi þorsteins ok allr frækleikr með hinu betra meðallagi, at því sem þá váru ungir menn. Í þenna tíma þóttust menn þess verða varir, at úthlaupsmenn eðr illvirkjar mundu á leið þeirri, er liggr á millum Jamtalands ok Raumsdals, því at engir komu aptr þeir sem fóru, ok þó saman væri 15 eðr 20, þá höfðu þó engir aptr komit, ok þóttust menn vita, at fyrir illgjörðir mundi úti búit. Menn Ketils bónda urðu minnst fyrir þessum ófrið, bæði manndrápum ok fèsköð-

um, ok þar gjörðist mikit orð á, ok varð á mikit ámæli, at sá væri mikill vanskörungr, er yfirmaðr væri þess hèraðs, at engar útgjörðir skyldi í móti koma eðr hefndir svoddan úhæfum, ok kváðu Ketil mjök eldast; en hann gaf sèr fátt um, ok þótti þó eptir því sem þeir sögðu.

2. Þat var eitt sinn, at Ketill mælti við son sinn: „Önnur gjörist nú atferð ungra manna en þá ek var ungr, at þá girntust menn á nokkur framaverk, annathvárt at ráðast í hernað, eðr afla sèr fjár með einhverjum atburðum þeim er nokkur mannhætta væri í. en nú vilja ungir menn gjörast heima-elskir ok eldhússfastir, ok sem í öðrum bakstri kýlandi vömb sína, ok heyra svoddan hnjóð údæmanna. Nú vilda ek, at þú legðir af svoddan úmennsku sið, ok leitaðir þèr fjár ok virðingar til handa, hvat hamingjan þèr unna vildi, En þat er víst Þorsteinn, at þú hefr hlotið lítinn krapt afls ok vaxtar, er þat ok líkast, at þú fylgir eptir þeirri athöfn, ok fari þar eljan eptir ok öll tilræði, því at ekki villtu víkjast eptir atferðum fyrri frænda þinna, ok sýnir þik eptir því sem þú ert ásýndum, ok mun hugr fylgja vexti. Þat var ríkra manna siðr, konunga eðr jarla, várra jafningja, at þeir lögðu í hernað, öfluðu sèr fjár ok frama, ok skyldi þat fè eigi til arfs telja, nè sonr eptir föður taka, heldr skyldi þat fè í haug leggja hjá sjálfum þeim. Nú þótt synir tæki jarðir í erfðir, máttu þeir eigi haldast í sínum kostum, þótt virðingar fèlli til, nema þeir legði sik ok sína menn í hættu ok herskap, aflandi sèr fjár ok frægð-

ar hverr eptir annan, ok stíga svá í fótspor frænda sinna. Nú ætla ek, at þèr sèu úkunn hermannalög, ok mætta ek þau kenna þèr, ok ertu nú svá til aldrs kominn, at þèr væri mál at vita, hvat hamingjan vill þèr unna.“ Þorsteinn svarar: „Eggjat væri nú ef nokkut tjáði.“ Hann stóð upp, ok var hinn reiðasti. Skógr mikill liggr milli Raumsdals ok Upplanda, er almennings vegr liggr yfir, þótt nú heptist fyrir þeim meinvættum, er menn hugðu úti liggja, þó engir kynni þar af at segja. Nú þótti sú framaferð mest at vinna hèr bætr á.

3. Þat var litlu síðar en þeir feðgar höfðu við talazt, at Þorsteinn gekk út einn saman frá drykkju, ok hyggr þat helzt fyrir sèr, at hann muni treysta á hamingju föður síns, ok verða eigi fyrir atyrðum hans, heldr vildi hann leggja sik í nokkura mannhættu. Hann tók hest sinn, ok reið einn saman til skógar, þar sem honum þótti helzt ván illvirkjanna, þó at honum þætti lítil ván framgengi síns við slíkt ofrefli, sem hann þóttist vita at fyrir mundi. Vildi hann nú heldr leggja lífit en fara at erindislausu. Hann hepti hest sinn við skóginn, en gekk síðan í hann, ok fann afstig einn, er lá af þjóðgötunni Ok sem hann hafði lengi gengit, fann hann hús eitt mikit ok vel gjört. Þóttist Þorsteinn vita, at þat herbergi mundi sá eiga, sem stigana hefði bannat, hvárt sem þeir væri einn eðr fleiri. Síðan gekk Þorsteinn inn í skálann, ok fann þar stórar kistur ok margt til gæða. Þar var skíðahlaði mikill, en annars veg-

ar vara í sekkjum ok alls kyns varningr. Þar sá hann rekkju eina. Hún var miklu meiri en önnur sæng, er Þorsteinn hafði fyrri sèt, þótti honum sá ærit hár, er þetta rúm var mátuligt. Rekkjan var vel tjöldut. Þar var ok borð búit með hreinum dúkum ok heiðrligum krásum ok hinum bezta drykk. Eigi gjörði Þorsteinn at þessum hlutum. Síðan leitaði hann sèr undanbragðs, at hann væri eigi fyrir augum þeim, er skálann byggði, því hann vildi fyrr vita, hvert efni honum þætti í vera, áðr þeir tækist orðum eðr sæist. Hann fór síðan upp í millum sekkjanna í vöruhlaðann, ok sat þar. Síðan heyrði hann út dyn mikinn, er áleið kvöldit, ok síðan kom inn maðr, ok leiddi eptir sèr, hest sinn. Sá maðr var harla mikill; hvítr var hann á hár, ok fèll þat ofan á herðar með fögrum lokkum. Þorsteini sýndist þessi maðr hinn fríðasti. Síðan kveikti þessi maður upp eld fyrir sèr; hann leiddi áðr hest sinn til stalls. Hann setti mundlaug fyrir sik, ok þvoði sèr ok þerrði á hvítum dúk. Hann renndi út af verpli vænan drykk í stórstèttarker, ok tók síðan til matar. Allt sýndist Þorsteini athæfi þessa manns mjök hæverskligt ok merkiligt. Miklu var hann meiri maðr en Ketill faðir Þorsteins, þó þótti hann, sem var, manna mestr. Ok er skálabúinn var mettr, sat hann við eld, sá í, ok mælti: Skipan er hèr á orðin, eldrinn er meir fölskvaðr en ek hugða; hygg ek hann hafi verit fyrir skömmu upp kveiktr, ok veit ek eigi hvat þat veit, ok má vera menn sèu komnir ok sitì um líf mitt, ok er þat eigi fyrir sakleysi,

ok skal ek fara ok leita um húsit. Síðan tók hann eitt eldskíð ok leitaði um húsit, ok kom þar at sem vöruhlaðinn var. Svá var þar háttað, at ganga mátti af hlaðanum ok inn í stóran reykbera, er á var skálanum. Ok er spillvirkinn kannaði hlaðann, var þorsteinn úti, ok gat skálabúinn eigi hitt hann, því at þorsteini varð annara forlaga auðit en vera þar drepinn. Hann leitar þrisvar um húsit, ok fann ekki. þá mælti skálabúinn: „Kyrrt mun ek nú vera láta, ok má vera þat komi fram um hagi mína sem mælt er, at illa gefast ill ráð.“ Síðan gekk hann aptr til hvílunnar, ok leysti af sèr sax. Svá sýndist þorsteini sem þat væri hin mesta gersemi, ok álíkt til bits, ok gjörði sèr þat í hug, at duga mundi, ef hann næði saxinu. Honum kom nú í hug eggjan föður síns, at þrótt ok djarfleik mundi með þurfa at vinna slík afrek eðr önnur, en fagrligir peningar mundu í móti koma, ok honum mundi þá betr gengit hafa en sitja við eldstó móður sinnar. þá kom honum í hug, at faðir hans sagði hann ekki betri til vápns en dóttur eðr aðra konu, ok meiri sæmd væri frændum hans, at skarð væri í ætt þeirra, en þar sem hann var. Slíkt hvatti þorstein fram, ok leitaði hann sèr færis, at hann mætti hefna margra vanmættis, en í öðru lagi þótti honum þó mikill skaði at manninum. Síðan sofnar skálabúinn, en þorsteinn gjörði tilraun með nokkuru harki, hvat fast hann svæfi. Hann vaknaði við ok snerist á hlið; ok enn gjörði þorsteinn tilraun aðra, ok vaknaði hann enn við. Hit þriðja sinn gekk þorsteinn at, ok drap

mikit högg á rúmstokkinn, ok fann, at þá var allt kyrrt um hann. Síðan kveikti þorsteinn ljós, ok gekk at rekkjunni, ok vill vita, ef hann væri í burtu. þorsteinn sèr, at hann liggr þar, ok svaf í silkiskyrtu gullsaumaðri, ok horfði í lopt upp. þorsteinn brá þá saxinu, ok lagði fyrir brjóst hinum mikla manni, ok veitti honum mikit sár. þessi brá við fast, ok þreif til þorsteins, ok kippti honum upp í rúmit hjá sèr, en svá fast hafði þorsteinn til lagt, at saxoddrinn stóð í beðnum. En þessi maðr var fárrammr ok lèt saxit standa sem komit var, en þorsteinn lá á milli þilsins ok hans. Hinn sári maðr mælti: „Hverr er sá maðr, er mèr hefr áverka veittan?“ Hann svarar: „þorsteinn heiti ek, ok er sonr Ketils Raums.“ Maðrinn mælti: „Ek þóttist vita áðr þitt nafn, en þykist ek af ykkr feðgum þessa sízt makligr verit hafa, því at ek hefi ykkr lítið eðr ekkert mein gjört; en nú varstu heldr til skjótr, en ek ofseinn, því at nú var ek á burt búinn at hverfa frá þessu úráði. Enn á ek alls kosti við þik, hvárt ek læt þik lifa eðr deyja. Nú ef ek gjöri eptir þínum verðleik, þá segir engi frá okkar sameign, en ek ætla þat nú ráðligast at láta þik þiggja líf þitt, ok mætti nú verða at því gagn, ef svá vildi takast. Nú vil ek ok segja þèr nafn mitt, at ek heiti Jökull ok er son Ingimundar jarls af Gautlandi. Ok eptir hætti ríkra manna sona aflaði ek mèr fjár, þó heldr væri frekliga, en nú var ek búinn til burtferðar. Nú ef þèr þykir nokkut veitt í lífgjöf þinni, þá far á fund föður míns, en hitt þó fyrri

at máli móður mína, er Vigdís heitir, ok seg henni einni saman þenna atburð, ok ber henni ástsamliga kveðju mína, ok seg, at hún komi þèr í frið við jarl og fulla vingan, með þeim hætti, at hann gefi þèr dóttur sína, systur mína, er Þórdís heitir. Nú er hèr gull, er ek sendi, sem þú skalt bera til jarteikna, at ek sendi þik, ok þótt henni þyki mikill harmr sinn eptir mik, þá vænti ek þó, at hún virði meir orðsending mína en tilgjörning þinn. En mèr segir svá hugr, at þú munir gæfumaðr verða. En ef þèr verðr sona auðit eðr þínum sonum, þá láttu eigi nafn mitt niðri liggj, ok vænti ek mèr þar gæfu af, ok hef ek þat þá fyrir lífgjöfina,“ Þorsteinn bað hann at gjöra sem honum líkaði um lífgjöf við sik, „ok einskis mun ek þik þar um biðja.“ Jökull kvað nú hans líf vera undir sèr, „ok allmjök muntu eggjaðr hafa verit þessa verks af föður þínum, enda hafa mèr nú at fullu bitið hans ráð, ok sè ek at þèr líkar, þó at vit deyjum báðir, en meiri forlaga mun þèr auðit verða, mest fyrir karlmennsku ok áræði, ok betr væri þá sèt fyrir kosti systur minnar, at þú fáir hennar, en víkingar með herfangi. Nú þó þèr sè boðit ríki í Gautlandi, þá far þú heldr til eigna þinna í Raumsdal, því at eigi munu föðurfrændr mínir þèr ríkja unna eptir hans dag. En verða má, at hörmungarvíg liggi í kyni yðar, ok munu menn missa saklausa frændr sína. Nú seg ekki til nafns míns alþýðu nema föður þínum ok frændum mínum, því at æfin hefr öfug verit, enda er nú goldit at verðugu, ok ferr svá flestum rang-

lætismönnum; ok tak nú gullit ok haf til jarteikna, en kipp í burt saxinu, ok mun þá ekki langt verða samtal okkar.“ Síðan kippti Þorsteinn burt saxinu, en Jökull dó.

4. Eptir þessi tíðindi reið Þorsteinn heim, ok er hann nálgaðist bæinn, sá hann marga menn ríða á móti sèr, ok kenndi þegar föður sinn ok marga kunningja, ok fóru allir hans at leita. Ok er þeir fundust, kvaddi Ketill son sinn með blíðum orðum, ok þóttist hann þá úr helju heimtan hafa. Ketill mælti. „Opt iðrast ek þeirra orða, er ek mælti við þik til fríunar eðr áleitni.“ Þorsteinn kvað hann lítt hafa fyrir sèt, hvárt hann kæmi nokkurn tíma aptr eðr aldregi, en kvað nú hamingju svá hafa stutt sik, at hann hafði heill aptr komit. En þó þeir köstuðu þessum orðum fram af nokkurri styggð, þá urðu þeir brátt vel sáttir. Sagði Þorsteinn nú föður sínum allan atburð sinnar ferðar. Eptir þetta verk fèkk Þorsteinn góðan orðróm af hverjum manni sem ván var á. Síðan lætr Þorsteinn þings kveðja, ok komu þar allir byggðarmenn úr þeim hèruðum. Á þessu þingi stóð Þorsteinn upp ok mælti: „Þat er yðr kunnugt at gjöra, at ótti sá, er hèr hefr um hríð á legit af stigamönnum, at menn máttu eigi fara ferða sinna, hann er nú afráðinn ok endaðr, ok er þat nú mest undir þessari minni þingstefnu, at ek vil, at hverr taki þat fè, er átt hefr, en ek mun eignast þat sem auk er.“ Hèr at var gjörðr góðr rómr af mönnum, ok fèkk Þorsteinn virðing mikla með öllu saman sínu

tiltæki. Nafn illvirkjans vissi eigi alþýða manna, af því þat var lítt á lopt borit.

5. Þat var einn dag, at Þorsteinn talar við föður sinn, at hann mundi fara austr til Gautlands á fund Ingimundar jarls sem hann hafði heitið Jökli Ketill kvað þat ekki ráðligt at ganga á hendr úvinum sínum, ok bað hann heldr heima vera, „ok þó jarl vili eigi granda þèr, þá má þó vera, at nokkrir sè þèr ágangsamir, eðr verði enn eigi góðviljugir.“ Þorsteinn svarar: „Þat ek hefi heitið Jökli skal ek efna, ok þótt ek beri þaðan hvárigan fótinn heilan, þá skal ek þó fara.“ Síðan bjóst Þorsteinn til ferðar, ok fór til Gautlands, ok hitti svá til, at hann kom til heimilis jarls árla dags. Jarl var farinn á veiðar eptir ríkra manna sið. Þorsteinn gekk inn í eina drykkjustofu með förunauti sínu. Þá kom kona jarls í stofuna, ok leit þá er komnir váru, ok sá, at vera mundu útlendir menn. Hún spurði, hverir þeir væri? Þorsteinn kvaðst norrænn vera, „ok á ek leynt erindi við þik, ok göngum við bæði tvau saman.“ Hún gjörði svá. Þorsteinn mælti: „Tíðindi hef ek at segja þèr, víg Jökuls sonar þíns.“ Hún svarar: „Þau mega mèr mikil þykja, en eigi úlíklig sakir hans tiltekta ok vándrar athafnar, eða hvat skyldar þik til at segja þessa harmsögu, ok fara til langan veg?“ Þorsteinn svarar: „Mikit dregr mik til þess. Ek hèt honum með trúnaði at okkrum skilnaði, at ek mundi á yðar fund fara, ok segja satt frá okkar skilnaði, ok ekki leyna, at ek varð hans banamaðr. Óx mönnum at sitja undir hans hendi

sökum manndrápa ok fèrána. En þó þèr at segja í trúnaði kom ek á hans vald, ok átti hann kost at drepa mik ef hann vildi, en hann gaf mèr líf, ok lagði þat á við mik, at ek skyldi fara á þinn fund at hans orðsendingu, ok sjá máttu, hægra væri heima en hætta á yðra miskunn. Nú hef ek hèr gull, er hann kvað yðr mundi við kannast, ok bað mik bera þat til jarteikna, at þú kæmir mèr í sátt við jarl með þeirri umleitan, at ek fengi dóttur ykkar mèr til konu, er þórdís heitir. Hann kvaðst ok vænta, at meir mundir þú virða sending ok tilskipan hans en tilverknað minn.“ Vigdís roðnaði mjök við, ok mælti: „Djarfr maðr muntu vera, en þó hygg ek þú segir sannindi frá ykkrum viðskiptum; ok ef Jökull gaf þèr líf, þá væri mitt ráð, at þú fengir þat, því at þú ert giptuvænligr maðr at sjá. En fyrir bænarorð Jökuls sonar míns mun ek byrja mál þitt við jarl, en þú ver í leynum fyrst.“ Ok er jarl kom heim, fór drottning á fund hans, ok mælti: „Tíðindi hef ek at segja yðr þau er bæði okkr henda.“ Jarl svarar: „þú munt segja dauða Jökuls sonar míns?“ Hún kvað þat satt vera. Jarl mælti: „Eigi mundi hann sóttdauðr verða.“ „þat er satt,“ segir hún, „at hann var veginn, ok sýndi hann áðr mikinn drengskap; hann gaf þeim manni líf, er þat gjörði, ok sendi hann hingat á várt vald með sönnum jarteiknum, at þú gæfir honum grið ok upp sakirnar þó miklar sèu. Verða mætti þèr ok styrkr at manninum, ef þú efldir hann at mægðum ok gjaforði dóttur þinnar eptir skipan Jökuls. Hefr

hann þat ok ætlat, at þú mundir virða nokkurs hans síðustu bæn. Máttu ok sjá, hve trúlyndr þessi maðr hefr verit í orðum sínum ok heitum, þar sem hann fór hingat frá eignum sínum í úfriðarstað í hendr oss. Nú væntir mik, at fyrir minn flutning ok sonar þíns orðsending, at þú munir gjöra sem ek hefi beðit, ok lítið hèr á jarteiknir." Hún sýnir honum þá gullit. Jarl blès þá við mæðiliga, ok mælti: „Margt hefr þú nú mælt ok mjök djarfliga, at ek mundi gjöra þeim manni sæmd, er drepit hefr son minn, ok væri sá maðr heldr dauða verðr en vingjafa." Drottning mælti: „Á hitt er at líta, herra! hvat í er, at virða orð Jökuls ok dyggð mannsins, at ganga á vald þitt, í annan stað aldr þinn mikinn, at þú þarft forstjóra fyrir þèr, ok mun sá maðr þar vel til fallinn. Nú sem Jökull gaf honum líf, ok átti áðr alls kosti með hann, ok sótti sá maðr giptu til hans svá úvænliga sem hann stofnaði, þá er ok einsætt, at eigi fáum við fyrikomit sigri þessa manns eðr hamingju, en drengiligu úrræði sonar okkars! ok er þat mikill sigr at gjöra svá sem Jökull gjörði, at gefa þessum manni líf, er þvílíkar sakir hefr við oss gjört, er þat ok hin mesta skömm at gjöra honum mein, þar sem hann er kominn á várt traust." Jarl mælti: „Allmjök fylgir þú þessum manni, ok hefr þèr vel á hann litizt, ok fyrir víst vil ek sjá hann ok virða fyrir mèr, hverr slægr mèr þykir í vera, ok mun þat miklu skipta, hvernig mèr lízt hann fyrir augum." Síðan var Þorsteinn fram leiddr, ok stóð fyrir

jarli, en drottning hafði svá tilstillt,, at honum var runnin hin mesta reiðin. Þorsteinn mælti: „Allt er enn, herra jarl, á yðru valdi um minn hag, er yðr nú ok kunnigt, hvat erindum ek hefi hingat sótt. Vil ek ok bjóða yðr til sátta, en kvíða engu, hvat þèr vilit gjört hafa; er þat ok höfðingja síðr at veita þeim líf, er sjálfkrafa ganga á þeirra vald.“ Jarl mælti: „Svá lízt mèr á þik, at ek muni gefa þèr líf, mun þat nú ok vænst til sonarbóta, at þú gangir í sonarstað, ef þú vilt með mèr vera, því at hamingjumót er á þèr, er þat ok ekki stórmannligt at stríða við þann, er á vald manns gengr.“ Þorsteinn þakkar jarli lífgjöfina, ok var hann þar um hríð, ok kynnuðust menn hugi við. Jarl fann þat brátt, at Þorsteinn var vitr maðr ok mjök merkiligr í öllum háttum. Þat var eitt sinn, at Þorsteinn mælti við jarl: „Nú vil ek vita hvers af er kostr um mægðirnar við yðr herra.“ Jarl svarar „Eigi vil ek því afneita, því at vera má þat sè til hamingju várrar ættar, en þat vil ek þú sèrt með oss.“ Þorsteinn mælti: „Því vil ek játa, ok kunna þökk, at vera hèr meðan þèr lifit, en ekki munu menn unna mèr hèr metorða eptir þinn dag, ok verðr hverr eptir sínum forlögum at leita. Jarl kvað líklega slíkt mælt.

6. Litlu síðar reið Þorsteinn heim, ok sagði föður sínum alla ráðstöfun, ok bað hann tilfarar, ok svá gjörði Ketill. Jarl bjó veizluna, en Þorsteinn sótti til með þá Raumsdæla ok mörgu stórmenni. Var veizlan fríð, með góðum tilföngum; gekk hún út með góðri sæmd ok stórum fégjöf-

um; skildust þeir jarl ok Ketill með hinni mestu vináttu. Þorsteinn var eptir með konu sína. Jafnan frètti Þorsteinn vingjarnligt orð til sín af jarli. Brátt váru ástir góðar með þeim Þorsteini og Þórdísi. Þess er getið eitt kveld, at menn komu til jarls með þau tíðindi, at þeir sögðu lát Ketils Raums, ok þat með, at menn vildu, at Þorsteinn færi aptr til ættjarðar sinnar ok ríkis. Þorsteinn bar þetta mál fyrir konu sína ok jarl. Hún bað hann fyrir sjá, ok kvaðst því vilja fylgja sem hann vill. Hann kvað sjer næst í hug at fara heim, taldi þar sízt öfundareyri, ok allir mundi honum þar bezt sæmdar unna. Þessu ráði samþykkti ok jarl, ok kvað líkligt at heima mundi honum verða auðit framgangs, heldr en hjá úkunnu fólki vera. Eptir þetta tók jarl sótt ok heimti til sín Þorstein mág sinn, ok svá dóttur sína, ok mælti: Búit nú ferð ykkar svá hèðan í burt, at þat sè með mikilli sæmd at fjárhlutum ok auðæfum, ok megu frændr várir því vel una, at þeim er ríki hèr allt upp gefit í landi með því öllu sem hèr fylgir. En ef ykkr verðr sonar auðit, þá látið hann hafa mitt nafn. Þorsteinn kvað svá vera skyldu, en því kvaðst hann eigi eptir jarlstign leita, at frændr hans váru útignir.

7. Ingimundr jarl andaðist litlu síðar en Þorsteinn fór heim til eigna sinna ok tók við föðurleifð sinn. Hann var í hernaði á sumrum, ok aflaði fjár ok virðingar, en sat heima at búum sínum á vetr, ok þótti hinn mesti sómamaðr. Ingjaldr hèt maðr, hann bjó í Hafney á Hálogalandi,

hann var bóndi hraustr, ok var í hernaði á sumrum en sat um kyrrt á vetrum; var þar vingan með þeim Ingjaldi ok þorsteini. Ingjaldr var góðr búþegn ok mikils háttar maðr. þorsteinn átti son við konu sinni, ok er sveinninn var fæddr, var hann borinn at föður sínum. þorsteinn leit á ok mælti: „Sá sveinn skal heita Ingimundr eptir móðurföður sínum, ok vænti ek honum hamingju sakir nafns.“ Sveinninn var snemma með miklum þroska. þeir þorsteinn ok Ingjaldr áttu vinboð saman á hverju hausti, þá er þeir komu úr víkingu. Ok eitt sinn er Ingjaldr var at veizlu með þorsteini, þá rann sveinninn Ingimundr at. Ingjaldr mælti: „Hamingjusamligr sveinn ertu, ok fyrir vináttu sakir okkar föður þíns, þá vil ek bjóða þèr heim til mín til slíks fóstrs, sem ek kann at veita þèr bezt.“ þorsteinn kvaðst þiggja mundi boðit, ok fór sveinninn heim með Ingjaldi. Grímr hèt son Ingjalds, en annarr Hrómundur. þeir váru vænligir menn ok gjörðust fóstbræðr Ingimundar. þeir þorsteinn ok Ingjaldr hèldu upp teknum hætti um heimboð og veizlugjörðir, ok þóttust menn hafa iðgjöld Ketils þar sem þorsteinn var, þótt hann væri maðr minni vexti, eðr eigi svá sterkr sem hann var. þat var einu sinni, þá er Ingimundr hitti föður sinn, at hann mælti: „Gott fóstr hefr þú mèr fengit, en nú vil ek, at þú fáir mèr skip, ok vil ek herja í sumar eptir hætti fyrri frænda várra. Er ek nú svá til aldrs kominn, at ek má vel slíkt starfa, ok vil ek kosta til þeirrar ferðar sjálfr ok þú, en ekki fóstri minn, en veit ek, at ek má hafa

af honum slíkt er ek vil.“ Þorsteinn kvað þessa vel leitað, „ok mun ek fá þèr eitt skip.“ Ingimundr kvað ekki minna mega við hlíta, ok fór heim, ok sagði fóstra sínum. Ingjaldr svarar: „Þat er gott tillag, en ek skal fá Grími annat skipit. Skulu þit fara báðir samt með forsjá ok athygli. Varizt ok leggit ekki þar at sem ofrefli er fyrir. Er þat ok meiri virðing at aukast af litlum efnum, en hefjast hátt ok setjast með lægingu.“ Síðan rèðust þeir í hernað Ingimundr ok Grímr, ok fóru vel með víkingsskap sinn; lögðu ekki at þar sem eigi sætti ráði, ok fengu fimm skip at hausti, ok váru öll vel búin at mönnum, vápnum ok öllum herskap. Þat sýndist brátt, at Ingimundr var góðr drengr, djarfr til framgöngu, traustr til vápns ok harðfengis, vinhollr ok góðgjarn, fastnæmr við vini sína, ok svá mátti höfðingja bezt farit vera, sem hann var, í fornum sið. Hann lýsti því yfir fyrir Grími, at hann ætlaði heim til föður síns at hausti, ok vera þar um vetrinn nokkura stund með 20 menn, ok svá gjörðu þeir. Þat fannst á heldr, at Þorsteini þótti nokkut svá vita ofsa þarvist þeirra, ok eigi með fullri forsjá. Ingimundr svarar: „Eigi áttu svá at mæla, ok sannligra er hitt, at þú beiðist slíks á móti, sem þú villt, af fjáraflanum, ok veita þat svá at sæmd fylgi. Nú sómir þèr vel at veita oss vistina með várum tilföngum.“ Þórdís mælti: „Vel er slíkt mælt ok drengiliga, ok svá mundi gjört hafa móðurfaðir þinn.“ Þorsteinn mælti: „Ek vil svá gjöra, ok er sköruliga mælt.“ Þar váru þeir um vetrinn fram um jól, ok var þar góð vist ok gleðilig.

Öllum þótti mikils vert um Ingimund bæði háttu hans ok yfirbragð. Hann var kænn við alla leika, ok at allri atgjörfi velfærr, úágjarn við sèr minni menn, en harðfengr ok framgjarn við sína úvini. Ok er jól leið, mælti Ingimundr til föður síns: „Nú munum vèr kompánar fara til fóstra míns, ok vera þar þat eptir er vetrarins, því at hann mun kunna þökk, at vèr sèum þar.“ Þorsteinn mælti: „Hitt þætti mèr ráð, frændi! at þú værir með oss í vetr.“ Ingimundr kvaðst fyrir hinu ráð hafa gjört; ok svá gjörðu þeir. Ingjaldr tók við þeim forkunnar vel; váru þeir þar um vetrinn þat er eptir var, en er váraði, þá sagði Ingimundr, at þeir mundi búa för sína í hernað, sagði þá nú allt betur tilfæra en fyrr. Ingjaldr sagði þat sannindi. Síðan fóru þeir í hernað annat sumar, ok fengu miklar tekjur fjár af reyfurum ok ránsmönnum þeirra er lögðust á fè bænda eða kaupmanna. Fór svá um sumarit. Þá mælti Ingimundr: „Ef eigi verða stórar mannraunir í várum ferðum, þá er einsætt at fara með hernaðinn drengiliga.“ Allir hlýddu hans boði ok banni. Ok er nokkut svá var haustað, komu þeir við Svíasker. Þar váru víkingar fyrir, ok bjuggust þegar hvárirtveggju til bardaga. Börðust fyrst með skotum ok grjóti; engi var liðsmunr. Þar urðu margir menn sárir af hvárumtveggjum. Ingimundr fèkk þá góðan orðróm þann dag, ok sannliga þóttust þeir góðum höfðingja þjóna, er hans menn váru. Ok er kvöldaði var hvíld nokkur á bardaganum. Ingimundr mælti þá: „Látum það ekki á finna, at vèr letj-

umst, þótt þessi fundr hafi með nokkurri mannhættu verit". Þá stóð maðr upp á skipi þeirra, sem fyrir váru, hann var bæði mikill ok vaskligr. Sá mælti: „Hverir eru þeir menn, sem barizt hafa við oss í dag? Þat er úsiðligt, at menn hafist ekki orð við; eru hèr ok engar sakir á milli áðr svá ek viti." Ingimundr svarar: „Ef þú spyrr at forráðsmönnum liðs þessa, þá heitir annarr Ingimundr, en annarr Grímr, eðr hverr ertu?" Hann svarar: „Sæmundr er mitt nafn, ok er ek Sygnverskr maðr at ætterni. Kunnigt er mèr ok um ykkr frændr; ok þar sem vèr erum samlendir menn þá sómir oss betr at vera eins liðs en berjast, höfum vèr ok góða eina fregn til yðar. Viljum vèr mæla til vinganar við yðr, eigi fyrir þat, at vèr þurfum friðar at biðja fyrir liðsmuna sakir." Ingimundr svarar: „Vel viljum vèr þetta virða, ok leggja eigi til hallmælis, ok munum vèr eigi kjósa oss þann hlut til handa at girnast við yðr til úviss frama, ok hafa nú handtekit frið ok vináttu yðra." Nú settu þeir grið sín á milli, ok hèldu síðan allir saman þat eptir var sumarsins, ok varð þeim gott til fjár ok sóma, ok sigldu um Sognsjó um haustið. Sæmundr kvað þá þar skilja mundi, ok finnast þar at sumri með vináttu. Ingimundr játar því. Sæmundr hèlt nú í fjörðinn, en Ingimundr sigldi norðr með landi, ok hafði mörg skip ok mikit fè. Hann fór til föður síns með 60 manna. Grímr mælti: „Ætlar þú nú, fóstbróðir! at föður þínum þyki eigi ærnir gestir." Hann kvaðst ætla, at nú mun hart nær hófi. Þorsteinn gekk í móti syni

sínum, ok bauð honum með allri alúð. Ingimundr kvaðst svá gjöra mundi. Þorsteinn veitti þeim stórmannliga um vetrinn, ok kvaðst vel við una at eiga þvílíkan son, ok kvaðst snemma hafa sèt á honum frændagiptu, „ok svá sem ek sè, at þinn þroski vex, þá skaltu af mèr fá þess meiri sóma“. Ingimundr var þar um vetrinn, ok þótti mjök fara vaxandi hans virðing, því at þess meira lèt hann til sín koma um fègjafir ok aðra stórmennsku sem föngin váru nægri. En er váraði, þá ræddu þeir um ferðir sínar fóstbræðr. Grímr kvaðst eigi mundi um breyta at fylgja honum. Síðan rèðu þeir í hernað, ok kom Sæmundr í móts við þá, sem fyrr var mælt, ok fóru allir samt um sumarit. Þeir áttu saman fèlag þrjú sumur í samt fyrir vestan haf, ok öfluðu fjár ok góðs orðróms. Ingimundr var fyrir þeim öllum um ráðagjörðir ok vitsmuni, ok á allan skörungskap, ok var þeirra fèlagsskapr at öllu merkiligr. Ingimundr var með föður sínum á vetrum. Þóttist Þorsteinn aldregi geta fullmikinn gjört sóma Ingimundar sonar síns, þegar hann sá, hvílíkr maðr hann mundi verða.

8. Þess er getið hit síðasta sumar, er þeir Sæmundr áttu fèlag saman, ok komu með miklu meira herfangi en fyrr, þá gjörðust þau tíðindi í Noregi, at herr safnaðist saman austr við Jaðar, ok var þar kominn náliga allr landsherr í tvá staði. Var þar öðru megin Haraldr, er ýmist var kallaðr Dofrafóstri eðr lúfa. Hann barðist í móti landshöfðingjum, ok átti hann þann hinn síðasta bardaga áðr hann vann allt land undir sik. Hann

barðist í Hafrsfirði, sem víða getr í sögum, ok í því bili komu þeir Ingimundr ok Sæmundr í land, sem sagt var áðr, þar nær sem herrinn var saman kominn. Þá mælti Ingimundr: „Hèr horfist til mikilla tíðinda, því hèr eiga hlut í allir hinir stærstu menn innanlands, þótt ek telì Harald konung mest verðan, ok sá maðr er mjök vel at skapi farinn, ok vil ek bjóða honum mitt lið, því eigi er þat við hváruga muni.“ Sæmundr kvaðst eigi mundi hætta lífi sínu fyrir hans sakir, „ok kem ek nú ekki í þann bardaga.“ Ingimundr mælti: „Sjá máttu, fóstbróðir! at mikill er afli konungs, ok mun þeim gegna betr, er með honum eru, at því ek hygg. Mun hann þeim góðu launa, sem nú veita honum sæmd ok eptirgöngu. En mèr mundi þykja úvíst, hvat fyrir lægi ef ekki er at hans vilja gjört, ok mun þat skilja með okkr.“ Síðan sigldi Sæmundr frá ok inn eptir Sognsjó með sitt lið, en Ingimundr inn eptir Hafrsfirði, ok leggr at skipaflota Haralds konungs. Þessir höfðingjar váru mestir í móti Haraldi konungi, Þórir haklangr ok Ásbjörn Kjötvi. Þeir höfðu allmikit lið ok harðsnúit. Ingimundr lagði at við lyptinguna á konungskipinu, ok kvaddi konung á þessa leið: „Heill, heill herra!“ Konungr svarar: „Vel fagnar þú, eða hverr ertu?“ „Ingmundr heiti ek, ok er Þorsteins son, ok því hèr kominn, at ek vil bjóða yðr lið mitt, ok hyggjum vèr þá betr hafa, er yðr lið veita en hina er við rísa. Er ek nýkominn úr hernaði með nokkurum skipum.“ Konungr tók vel hans máli, ok kvaðst heyrt hafa hans getið af góð-

um hlutum, ok þat mundi ek vilja, at þèr yrði launat þitt starf, því ek skal allan Noreg undir mik leggja, ef hamingjan lofar; ok mikinn mun á ek at gjöra yðar ok þeirra, er hlaupa í flokk fjandmanna várra eðr til eigna sinna, sem ek hefi spurt, at Sæmundr hafi gjört, fèlagi þinn; ok kalla ek meiri manndóm sýnast í slíkum tiltækjum, sem þú hefr haft.“ Ingimundr sagði Sæmundi þó margt þjóðvel gefit.

9. Eptir þetta kváðu við lúðrar um allan herinn, ok bjuggust menn til hverr eptir sínum efnum. Þenna bardaga átti Haraldr konungr mestan. Þar váru þá með honum Rögnvaldr á Mæri ok margir aðrir stórhöfðingjar, ok þeir berserkir, er Ulfheðnir váru kallaðir. Þeir höfðu vargstakka fyrir brynjur, ok vörðu framstafn á konungsskipinu, en konungr sjálfr varði lyptinguna með hinni mestu prýði og karlmennsku. Mátti þar sjá mörg högg ok stór. Gjörðust nú brátt mörg tíðindi ok stór á skammri stund með höggum ok spjótalögum ok grimmligu grjótflugi. Gjörðist nú skjótt mikit mannfall af hvárumtveggju. Ingimundr fylgdi vel Haraldi konungi, ok aflaði sèr góðs orðs. Fundinum lauk svá, sem mörgum er kunnugt, ok fullfrægr er orðinn, at Haraldr konungr hafði ágætan sigr, ok varð síðan einvaldr konungr yfir öllum Noregi. Hann launaði höfðingjum öllum þeim er honum fylgdu ok svá hinum öðrum með hinni mestu stórmennsku. Rögnvaldi gaf hann jarlsdóm, ok mælti: „Þú hefr sýnt mikinn manndóm í fylgd þinni við mik. Þú hefr ok látið þinn son fyrir mínar sakir, ok má

hann eigi aptr gjalda. En hitt má ek at launa þèr sæmdum. Þat fyrst, at þú skalt verða jarl, þar með eyjar þær, er liggja fyrir vestan haf, er Orkneyjar heita. Þær skaltu hafa í sonarbætr. Margan annan sóma skaltu af mèr þiggja, ok þat efndi konungr. Rögnvaldr gat eigi haldit eyjunum fyrir víkingum, þó kvaðst hann mundi halda ríkinu. Hann varð fyrstr jarl at Orkneyjum; af honum eru komnir allir Orkneyinga jarlar. Haraldr konungr gaf mörgum stór lèn fyrir sína fylgd, ok alla gæddi hann með nokkurum launum; en hina, sem honum höfðu mótsnúnir verit, rak hann úr landi eðr drap, meiddi eðr deyddi, svá at engir fengu viðrètting. Síðan mælti konungr til Ingimundar: „Mikla vináttu hefr þú við mik sýnt, en þèr aukit þar með sjálfum frama. Skal ek ok ávalt þinn vin vera, en hlutskipti þitt skulu vera þrjár skipshafnir, þar með skaltu hafa herbúnað allan þeirra víkinga, er þú barðist við, ok til merkis, er þú hefr verit í Hafrsfirði, þá skaltu eignast at gjöf hlut þann, sem átt hefr Kjötvi, er hann hafði mestar mætr á. Nú er þat meir til sanninda þessa fundar en þat sè mikit fè, en þó sæmd í at þiggja af oss. En þá vèr höfum skipat ríki várt, skal ek launa þèr liðsemdina með heimboði ok vingjöfum.“ Ingimundur þakkar konungi gjafir ok góð orð, ok skildust með þat, Konungr sagðist ok minnugr skyldi vera Sæmundar fyrir sínar tiltekjur ok drottinssvik við sik.

10. Ingimundr hitti Sæmund eptir bardagann í Hafrsfirði, ok segir, at eigi hafi fjærri farit sínu

hugboði um fundinn. „Veit ek ok, sakir orða konungs, at þèr hlýðir eigi kyrrum at sitja, ok kalla ek ráð, at þú leitir undan, því konungr mun efna heit sín, en ek spara þik til harðra álaga fyrir okkar vinskap. Þætti mèr eigi úráðligt, at þú leitaðir til Íslands sem nú gjöra margir virðingamenn þeir sem eigi bera traust til at halda ríki við Harald konung". Sæmundr mælti: „Sýnir þú í þessu sem öðru trúskap þinn ok vingan; ok mun ek þetta ráð taka". Ingimundr bað hann svá gjöra, „ok hefði betr farit, þú hefðir mèr fylgt í Hafrsfirði, ok þurfa nú ekki at fara í eyðisker þetta". Sæmundr kvað hann mundi nærri geta. Síðan seldi hann jarðir sínar á laun, ok bjóst til burtferðar, ok þakkaði Ingimundi sín tillög, ok mælti enn til vináttu. Sæmundr fór síðan til Íslands, ok kom í Skagafjörð. Var þá enn víða úunnit landit. Hann fór með eldi at fornum sið, ok nam sèr land þar sem nú heitir Sæmundarhlíð í Skagafirði, ok gjörðist þroskamaðr mikill. Son hans hèt Geirmundr en Reginleif dóttir, er átti Þóroddr hjálmr. Þeirra dóttir var Hallbera móðir Guðmundar hins ríka at Möðruvöllum ok Einars Þveræings. Ingimundr fór til föður síns eptir bardagann í Hafrsfirði með miklum sóma. Þorsteinn tók við honum báðum höndum, ok sagði hann hamingjusamliga snúið hafa sínum ráðum. Kvað þat ok líkligt, „þar sem þú ert dótturson Ingimundar jarls, hins göfugasta manns". Hann var þar um vetrinn, ok á þeim vetri kom Ingjaldr til Þorsteins, ok var mikill fagnaðarfundr. Ingjaldr kvað þá komit í þat efni um Ingimund, sem hon-

um hafði hugr sagt. „En veizlu hef ek þèr nú búna, fóstri minn! með öllum þeim föngum, sem ek hefi til“. Ingimundr kvaðst koma mundi. Ingjaldr fór heim, ok bauð mörgum mönnum heim með sèr. Síðan fór hverr sem boðit var. þeir Ingjaldr efla þar seið eptir fornum sið til þess at menn leituðu eptir forlögum sínum. þar var komin Finna ein fjölkunnug. þeir Ingimundr ok Grímr komu til veizlunnar með fjölmenni miklu. Finnan var sett hátt, ok búit um hana vegliga. þangat gengu menn til frètta, hverr úr sínu rúmi, ok spurðu at forlögum sínum. Hún spáði hverjum eptir því sem gekk, en þat var nokkut misjafnt, hvernig hverjum líkaði. þeir fóstbræðr sátu í rúmum sínum, ok gengu eigi til frètta. þeir lögðu ok engan hug á spár hennar. Völvan mælti: „Hví spyrja þeir hinir ungu menn eigi at forlögum sínum, því at mèr þykir þeir merkiligastir menn af öllum þeim, sem hèr eru saman komnir.“ Ingimundr svarar: „Mèr er ekki annara at vita forlög mín en fram koma, ok ætla ek mitt ráð eigi komit undir þínum tungurótum.“ „Ek mun þá segja þèr úfregit,“ segir hún. „þú munt byggja land, er Ísland heitir, þat er enn víða úbyggt. þar muntu gjörast virðingamaðr, ok verða gamall mjök. þínir ættmenn munu ok vera ágætir í því landi.“ Ingimundr segir: „þetta er því vèl sagt, at þat hef ek einhugsat, at koma aldregi í þann stað, ok eigi verð ek þá góðr kaupmaðr, ef ek sel ættjarðir mínar margar ok góðar, en fara í eyðibyggðir þær.“ Finnan svarar: „þetta mun fram koma, sem ek segi, ok þat til merkis, at hlutr sá,

er horfinn úr pússi þinum, sá er Haraldr konungr gaf þèr í Hafrsfirði, ok er hann nú kominn í holt þat, er þú munt byggja, ok er á hlutnum markaðr Freyr af silfri. Ok þá þú reisir bæ þinn, mun saga mín sannast.“ Ingimundr mælti: „Ef fóstra mínum væri engi meingjörð í, þá mundir þú taka launin í höfði þèr. En með því ek er engi ágangsmaðr eðr tyrrinn, þá mun þat fyrirfarast.“ Hún kvað hann ekki þurfa at reiðimálum gjöra. Ingimundr kvað hana illu heilli þar hafa komit. Hún kvað svá búit vera mundi, hvárt er þætti vel eðr illa. Ok enn mælti hún: „Grímr ok Hrómundr munu ok þangat, ok munu þeir báðir verða gildir bændr.“ Um morguninn eptir leitaði Ingimundr hlutar síns, ok fann ekki. þótti honum þat ok ekki góðr viti. Ingjaldr bað hann vera glaðan, ok láta þetta ekki fyrir gleði standa, ok kvað marga ágætismenn láta sèr nú sóma at fara til Íslands. „Hefr mèr ok gott eina til gengit, þótt ek byði Finnunni hingat.“ Ingimundr sagðist honum enga þökk fyrir þat kunna, „en þó mun aldregi týnast okkar vinfengi.“ Síðan fór Ingimundr heim til föður síns, ok var þar um vetrinn. Ok er váraði, spurði hann fóstbræðr sína hvat þeim sýndist um ferðirnar. Grímr kvaðst hyggja, at eigi mundi tjá at brjótast við forlögin. Ætla ek nú í sumar til Íslands, ok við bræðr báðir. Láta sèr þat nú margir sóma, þó göfugir sèu. Er mèr sagt gott frá landkostum, at þar gangi sjálfala fè um vetr, en fiskr í hverju vatni, skógar miklir, en frjálsir af ágangi konunga ok

illræðismanna.“ Ingimundr svarar: „Eigi mun ek þangat, ok mun þat skilja með okkr.“ Grímr kvað svá vera mega, en eigi kemr mèr á úvart, þó við finnumst á Íslandi, því at úhægt mun forlögin at flýja.“ Ingimundr sagði sèr víst sviptu at hans skilnaði. Grímr sigldi út um sumarit, ok báðir þeir bræðr. Komu í Borgarfjörð, ok lögðu inn á Hvanneyri. Grímr kvaðst ætla, at hann mundi nema þat land sèr til ábúðar. Hann tók þar landnám svá mikit, at þar eru margir bæir í hans landeign. Hrómundr kvaðst mundi leita upp til fjalla, ok kvaðst þar mundi yndi nema á fjallaendum. Grímr kvað þat vel efnat, at þeir hafi bæði landkosti til fjallanna, ok svá neyti af sjónum. Hrómundr nam Þverárhlíð, ok þótti vera mikill maðr ok kynsæll; frá honum er kominn Illhugi svarti. Grímr varð ok kynsæll, ok kom margt stórmenni frá honum, þó eigi sè hèr nefnt.

11. Þat sumar, er þeir bræðr komu til Íslands, þá fór Ingimundr til föður síns ok var með honum. Faðir hans tók þá at eldast mjök; ok eitt sinn mælti Þorsteinn til Ingimundar: „Gott er nú at deyja, ok vita son sinn slíkan hamingjumann. Uni ek því bezt við æfi mína, at ek hefi engi ágangsmaðr verit við menn. Er ok líkast, at með þeim enda slitni æfi mín, því at ek kenni mèr nú sóttar. En nú vil ek þèr, frændi! kunnugt gjöra fyrirsögn mína, hver er; en eigi þykir mèr kynligt þó at þèr svipi af þínum ættjörðum, ok læt ek mèr ekki at því þykja.“ Ingimundr kvaðst mundi allan hug á leggja at breyta eptir hans fyrirsögn,

þorsteinn kvaðst þat ælla, at Ingimundr mundi þykja mikill maðr hvar sem hann væri. þorsteinn sagði honum þá marga hluti fyrir, ok brátt eptir þat andaðist hann. Var honum veittr sæmiligr umbúnaðr eptir fornum sið. Ingimundr tók við fjárforráðum ok öllum eignum. Ætlaði hann þar at nema yndi, ok setjast nú um kyrrt.

12. Haraldr hinn hárfagri var nú kominn í fullan frið ok kyrrsetu, er mestr hefr verit allra fornkonunga í Norðrlöndum. Hann minntist nú þess, er hann hafði heitið vinum sínum, ok gjörði þeim ríkugligar veizlur með stórum sæmdum. Hann bauð einkum Ingimundi; ok er hann kom, tók konungr allvel við honum, ok mælti svá; „þitt ráð spyrst mèr á margan hátt sómasamligt, en þó skortir þik einn hlut, at þú ert konulaus. En þó hef ek hugsat þèr ráðakost. Var mèr þat í huga, er þú lagðir þitt líf í hættu fyrir mitt líf. Dóttir þóris jarls þegjanda heitir Vigdís. Hún er kvenna fríðust, ok með miklu fè; ok því ráði mun ek þèr í hendr koma. Ingmundr þakkaði konungi, ok kvaðst fúss vera þessa ráðahags. Konungr veitir veizlu þessa með miklum ríkdóm ok metnaði, ok fóru menn heim. Eptir þetta efnar Ingimundr til brúðkaupsgjörðar, at því búnu kemr þar Haraldr konungr ok mart annat stórmenni. Gengr Ingimundr at eiga Vigdísi eptir því sem stofnat var. þetta brúðkaup var veitt með hinni beztu virðingu. Konungr lagði þar mikinn kost í fègjöfum ok annari sæmd. Ingimundr mælti þá til konungs: „Nú uni ek allvel við minn kost, ok stórheiðr er at verða

fyrir yðar góðvilja, en þat stendr mèr í hug, er Finnan hefr mèr spáð um ráðabreytni, en ek vildi þat sannaðist eigi, at ek færi af ættjörðum mínum.“ Konungr segir: „þar kann ek nú ekki af at taka, ok sè þat til nokkurs gjört, ok vill Freyr sinn hlut þar láta niðr koma, eðr hann vill sitt sæmdarsæti setja.“ Ingimundr kvað sèr fýsn á at vita hvárt hann fyndi hlutinn eðr eigi, þá er grafit væri fyrir öndvegissúlum hans. Kann ok vera, at þat sè eigi til einskis gjört. Er nú ok ekki því at leyna, herra! at ek ætla at gjöra eptir Finnum þeim, eð mèr sýni hèraðsvöxt ok landsskipun þar sem ek skal vera, ok ætla ek at senda þá til Íslands.“ Konungr kvað hann þat mega gjöra, „en þat hygg ek, at þangat munir þú fara; ok er þèr vegligt hvar þú ferr í leyfi mínu, eðr leynist þú sem nú tekr mjök at tíðkast“. „þat mun mèr aldregi verða,“ segir Ingimundr, „at ek fari í banni þínu.“ Síðan skildu þeir konungr. Ingimundr fór heim ok sat at búum. Hann sendir eptir Finnum, ok koma þeir at norðan þrír. Ingimundr sagði, at hann vill kaupa at þeim, ok vil ek gefa yðr smjör ok tin en þèr farit sendiför mína til Íslands, ok leitið eptir hlut mínum, ok segit mèr frá landslagi. þeir svara: „Sendisveinum er þat forsending at fara, en þó fyrir þína áskoran viljum vèr prófa. Nú skal oss byrgja eina saman í húsi, ok nefni oss engi maðr“; ok svá var gjört. Ok er liðnar váru þrjár nætr, kom Ingimundr til þeirra. þeir risu þá upp ok vörpuðu fast öndinni, ok mæltu: „Sendisveinum er erfitt, ok mikit starf höfum vèr nú haft, en þó

munum vèr með þeim jarteiknum fara, at þú munt kenna land, er þú kemr, at várri frásögn, en torvelt varð oss at leita at hlutnum, ok mega mikit atkvæði Finnunnar, því at vèr höfum lagt oss í mikla ánauð. Þar komum vèr á land sem þrír firðir ganga af landnorðri, ok vötn váru fyrir innan einn fjörðinn. Síðan komum vèr í dal einn djúpan. Í dalnum undir fjalli einu var holt mikit. Þar var byggiligr hvammr, ok þar í holtinu öðru var hlutrinn. Ok er vèr ætluðum at taka hann, þá skauzt hann í annat holtið, ok svá sem vèr sóttum eptir, hljóp hann ávalt undan, ok nokkur hulda lá ætíð yfir, svá at vèr náðum eigi, ok muntu sjálfr fara verða.“ Hann kvaðst þá ok skyldi burt fara, ok kvað ekki mundi stoða við at sporna. Hann gjörði vel við Finnana, ok fóru þeir burt, en hann settist um kyrrt at búum sínum, ok var vel auðugr at fè, ok góðr drengr. Síðan hitti hann konung, ok sagði honum sína meðferð ok fyrirætlan. Konungr kvað sèr slíkt ekki úvörum koma, ok sagði úhægt at gjöra við atkvæðum. Ingimundr kvað þat satt vera, „ok hefi ek nú allra bragða í leitað.“ Konungr mælti: „Hvar landa sem þú ert, muntu sæmdarmaðr vera.“ Konungr fèkk honum enn sem fyrr á hverjum fundi nokkurn sæmdarhlut. Eptir þetta gjörði Ingimundr veizlu, ok bauð til vinum sínum ok höfðingjum, með miklum ríkdóm. Ok at þeirri veizlu kvaddi hann sèr hljóðs, ok mælti: „Ráðabreytni hefi ek ætlat fyrir mèr, ok hygg ek nú at fara til Íslands, meir af forlögum ok atkvæði rammra hluta en fýsi. En þat

er heimilt þeim eð fara vilja með mèr. Hinum er ok leyfiligt eptir at vera, sem þat vilja, ok jafnkomnir eru várir vinir hvárirtveggju, hvárt sem heldr vilja kjósa fyrir sik". Mikill rómr varð at máli hans, ok sögðu mikinn skaða í hans burtferð; en þó er fátt sköpum ríkara. Urðu ok þess margir búnir at fara með honum til Íslands þeir eð mikils váru virtir, bæði bændr ok lausamenn.

13. Í þann tíma var sem mest sigling til Íslands, ok í þat mund fæddi Vigdís barn. Þat var sveinn: sá var fríðr sýnum. Ingimundr leit á sveininn ok mælti: „Sá sveinn hefr hýrligt augnabragð, ok skal ekki seilast til nafns. Hann skal heita Þorsteinn, ok mun vitnast, at honum mun hamingja fylgja." Sá sveinn var snemma vænn ok gjörfiligr, stilltr vel ok orðvís, vinfastr ok hófsmaðr um alla hluti. Son áttu þau annan. Sá var ok borinn til föður hans, ok skyldi hann ráða fyrir nafni. Hann leit á, ok mælti: „Þessi sveinn er allmikilfengligr, ok hefr hvassar sjónir. Hann mun verða, ef hann lifir, ekki margra líki, ok ekki mikill skapdeildarmaðr, en tryggr vinum ok frændum, ok mun verða gildr kappi ef ek sè nokkut til. Mun ok nauðr at minnast Jökuls frænda várs sem faðir minn bað mik, ok skal hann heita Jökull. Hann óx upp ok gjörðist afreksmaðr at vexti ok afli. Hann var fálátr, úmjúkr ok údæll, harðúðigr ok hraustr um allt. Þórir hèt hinn þriði son Ingimundar skilgetinn. Hann var vænn maðr ok mikill vexti, ok hafði mjök á sèr kaupmannaæði. Fjórði hèt Högni. Fimmti hèt Smiðr. Hann

var friðluson. Þorsteinn var vitrastr þeirra bræðra. Þórdís hèt dóttir Ingimundar, heitin eptir móður sinni, en önnur Jórunn. Jörundr hèt maðr, ok var sonr Þóris jarls þegjanda. Hann var bróðir Vigdísar. Hann lýsir því, at hann muni fara til Íslands með Ingimundi, ok lèt þar til halda vingan ok vinsemd. Ingimundr lèzt því vel kunna. Hvati hèt maðr ok Ásmundr, þeir váru þrælar Ingimundar. Enn eru fleiri menn til nefndir þeir er fýstust til Íslands með Ingimundi. Einn af þeim hèt Friðmundr, annarr Þórir, þriði Refkell, fjórði Úlfkell, fimmti Böðvarr. Þessir allir bjuggu ferð sína til Íslands með Ingimundi ok höfðu allir stórfè, stigu á skip, ok lètu í haf, ok höfðu skamma útivist,

14. Nú lætr Ingimundr í haf þá hann er búinn með sitt föruneyti, ok átti góða útivist, ok sigldu vestr fyrir Ísland, ok komu inn á Borgarfjörð í Leiruvág. Brátt spurðist skipkoman. Grímr reið til skips, ok fagnaði vel fóstbróður sínum, ok kvaðst mikla þökk kunna hans þarkomu. „Kemr nú hèr at eptir því sem mælt er,“ segir Grímr, at „torsótt er at forðast forlögin.“ Ingimundr kvað þat satt vera, „ok verðr eigi viðgjört, fóstbróðir.“ Grímr segir: „Þat er mitt boð, at þú farir heim til mín með lið þitt allt, ok haf allt af mínu fè sem þú villt, hvárt sem er lönd eðr lausir aurar. Ingimundr þakkar boðit, ok kvaðst mundi vera hjá honum um vetrinn, en þar sem ek hefi breytt ráðahag mínum til þessar ferðar, þá mun ek þangat á leita, sem mèr var á vísat til landnáma, í tómi. Ingi-

mundr fer á Hanneyri, kona hans ok synir, en lið hans var þar allt umhverfis. Grímr veitti þeim stórmannliga, ok lèt eigi undan dregit at veita þeim allt til sæmdar um vetrinn. En er váraði lèt Grímr enn sem fyrr í tè þat hann átti. Ingimundr kvað honum fara allt sem bezt sem ván var, „en norðr á mun ek halda, en um flutning ok farargreiða verðum vèr þín at njóta.“ „Grímr kvað svá vera skyldi. Slíkt hit sama gjörði ok hverr maðr, því allir fögnuðu Ingimundi ágæta vel, ok hann fór norðr um sumarit í landaleitan, ok fór upp í Norðrárdal ok þar norðr, ok kom ofan í eyðifjörð einn. Ok er þeir fóru með þeim firði, hlupu úr fjalli hrútar at þeim. þeir váru hvítir. þá mælti Ingimundr: „þat mun vel fallit, at þessi fjörðr heiti Hrútafjörðr.“ Síðan komu þeir ofan í fjörðinn, ok gjörði þoku mikla. þeir komu á eyri eina; fundu þeir þar eitt borð upp rekit. þá mælti Ingimundr: „þat mundi ætlat, at vèr skulum hèr örnefni gefa, ok mun þat haldast, ok köllum eyrina Borðeyri.“ þá leið á sumarit, því margt var at færa, ok fóru síð, ok komu nær vetri í dal þann, er allr var viði vaxinn. þá mælti Ingimundr: „Dalr er mjök víði vaxinn, því köllum hann Víðidal, ok hèr ætla ek líkast til vetrsetu.“ þeir váru þar vetr annan, ok gjörðu sèr þar skála á einum hól, er nú heitir Ingimundarhóll. þá mælti Ingimundr: „Nú mun eigi vistin jafngóð sem í Noregi, en ekki þarf nú at minnast á þat, því at margir góðir drengir eru hèr saman komnir til gamans, ok gleðjumst nú ept-

ir tilföngum.“ Allir tóku vel undir þat, ok váru þar um vetrinn, ok höfðu leika ok alls kyns gleði.

15. En er váraði, ok nokkut leysti snjóa úr hèruðum, mælti Ingimundr: „Forvitni væri mèr á at vita, ef nokkurir menn gengi á hátt fjall, ok sjá ef nokkut væri snjóminna at sjá í aðra staði, því ekki þyki mèr sem vèr munum í þessum dal búnað reisa, ok eigi er elligar jafnkeypi.“ Síðan gengu menn á fjall eitt hátt, ok sjá víða þaðan. Þeir komu aptr, ok sögðu Ingimundi, at fjöll væri snjólaus mjök þau er lægi í landnorðri, ok gott til at líta, „en hèr er sem sama hríð sè ávalt er vèr erum, ok kunnum vèr þat at sjá, at þar eru landkostir miklu betri.“ Ingimundr segir: „Þá er hóf at, ok væntum vèr at nokkut grænt muni fyrir liggja; svá mun hlut til draga. Nú búast þeir snemma um várit, ok er þeir nálgast norðr til Vatnsdals, þá mælti Ingimundr: „Nú mun sannast spá Finnunnar, því nú kenni ek landsleg at frásögn hennar, at hèr mun oss at vísat, ok vænkast nú mjök. Ek sè nú land at víðleikum með vexti, ef þar fylgja kostir, þá má vera, at hèr sè vel byggjandi.“ Ok er þeir komu at Vatnsdalsá, þá mælti Vigdís kona Ingimundar: „Hèr mun ek eiga dvöl nokkura, því ek kenni mèr sóttar.“ Ingimundr segir: „Verði þat at góðu!“ Þá fæddi hún meybarn. Hún var kölluð Þórdís eptir móður Ingimundar. Ingimundr mælti: „Hèr skal Þórdísarholt heita.“ Síðan sótti liðit upp í dalinn, ok sá þar góða landkostu með grösum ok skógum allt vaxit, ok fagrt um at lítast. Yppti þá mjök brúnum manna við. Ingi-

mundr nam Vatnsdal allan fyrir ofan Helgavatn ok Urðarvatn. Þórdísarlækr fellr vestan í Smiðjuvatn. Ingimundr kaus sèr bústað í hvammi einum mjök fögrum, ok efnaði til bæjar, en reisti hof mikit, 100 feta langt; ok er hann gróf fyrir öndvegissúlum, þá fann hann hlut sinn, sem honum var fyrir sagt. Þá mælti Ingimundr: „Þat er þó satt at segja, at eigi má við sköpunum sporna, en þó skal nú á þetta góðan hug leggja. Bær sá skal heita á Hofi. Menn Ingimundar skipuðu sèr um dalinn, ok tóku bústaði at hans ráði. Þetta haust váru ísalög mikil. Ok er menn gengu á ísa, þá fundu þeir birnu eina, ok með henni húna tvá. Ingimundr var í þeirri ferð, ok náði hvárumtveggjum, ok kvað þat Húnavatn heita skyldu. „En fjörðr sá er flóði allr af vötnum skal heita Vatnafjörðr.“ Eptir þat fór Ingimundr heim. Hann setti saman virðugligt bú, ok gjörðist brátt yfirmaðr Vatnsdals ok þeirra sveita er nálgastar váru. Hann átti margt gangandi fè bæði naut ok sauði ok annan búsmala. Þat sama haust hurfu frá honum sauðir, ok fundust um várit í skógum. Þar heitir nú Sauðadalr, ok má af því marka landkosti, er í þat mund váru, at fè gekk sjálfala úti. Þess er ok getið, at svín hurfu frá Ingimundi, ok fundust eigi fyrr enn annat sumar at hausti. Váru þau þá saman 100, öll stygg orðin. Göltr einn gamall ok mikill fylgði þeim, ok er kallaðr Beigaðr. Ingimundr safnar mönnum til at handsama svínin, ok kvað svá rètt at mæla, at þrjú höfuð væri hvervetna. Þeir fóru at svínunum, ok

ráku þau at vatni því, er nú kallast Svínavatn, ok vildu kvía þau þar, en göltrinn hljóp á vatnit ok svam yfir um, ok varð svá móðr, at af honum gengu klaufirnar. Hann komst á hól einn, er nú er kallaðr Beigaðarhóll, ok dó þar. Ingimundr festi nú yndi í Vatnsdal. Þá gjörðust ok margar sveitir byggðar. Tókust þá upp lög ok landsrèttr.

16. Þá Ingimundr hafði búit nokkura hríð at Hofi, lýsir hann utanferð sinni at sækja sèr húsavið, því hann kvaðst vel vilja setja sinn bæ, ok kveðst vænta, at Haraldr konungr mundi honum vel taka. Vigdís segir hann vænan til góðs. Hann setti menn til fjárforráðs síns með Vigdísi. Ingimundr hafði bjarndýrin með sèr. Honum fórst greitt, ok kom við Noreg. Hann hèlt frèttum til Haralds konungs. Var allt kyrrt í landi. Ok er hann fann konung, var honum vel fagnat. Bauð konungr honum með sèr at vera, ok þat þág Ingimundr. Þar var hann um vetrinn með mikilli sæmd haldinn. Konungr spurði, hversu honum hagnaðist Íslands kostir. Hann lèt vel yfir „En þat er mitt erindi, at afla mèr húsaviðar." Konungr mælti: „Þat er vel gjört, er þèr ok heimil vár mörk sem þú vilt höggva láta. En ek mun láta til skips færa, ok skaltu engan hlut um þat annast, ok ver með mèr." Ingimundr sagði: „Hèr megi þèr sjá, herra! bjarndýr, er ek náði á Íslandi. ok vilda ek þèr þægut af mèr." Konungr segir: „Ek vil víst þiggja ok kunna þökk fyrir." Þeir skiptust mörgum gjöfum við um vetrinn. Ok er váraði var búit skip Ingimundar með

farmi þeim hann kaus ok því viðavali, sem bezt fèkkst. Konungr mælti: „Ek sè þat Ingimundr, at þú munt eigi ætla sjálfr optar fara til Noregs. Nú þyrftir þú at hafa svá mikinn við sem þèr nægir, en þat má ekki eitt skip bera. Nú er hèr at líta á nokkur skip. Kjós þèr af hvert þú vilt.“ Ingimundr segir: „Kjósit sjálfir, herra! mèr til handa; þat mun mestri giptu stýra.“ Svá skal ok vera,“ segir konungr, „því mèr er kunnigast um. Hèr er skip, er Stígandi heitir, er vèr köllum bíta í siglingu, allra skipa bezt, ok farsælla en hvert annat; þat mun ek kjósa þèr til handa. Skipit er frítt en ekki mikit“. Ingimundr þakkaði konungi gjöfina. Síðan fór hann af konungs fundi með mörgum vingjöfum ok kærleik, hèlt í haf, ok sèr hann brátt hversu fljótt skip Stígandi var. Þá mælti Ingimundr: „Vel hefr konungr mèr skip valit. Þat má vel heita Stígandi, er svá les hafit.“ Þeir komu við Ísland, ok sigldu fyri vestan ok svá norðr fyri. Þat höfðu engir áðr gjört. Ingimundr kom báðum skipunum í Húnavatnsós, ok gaf þar öll örnefni, er síðan hafa haldizt. Þar heitir Stígandahróf, er hann var upp settr. Þetta spyrst víða, at Ingimundr er kominn, ok láta allir vel yfir hans heimkomu. Ingimundr átti ágæta bú með mörgum efnum. Hann bætti nú mikit bæ sinn, því efni váru nóg. Hann fèkk sèr goðorð ok mannaforráð. Jörundr háls, var annarr maðr mestr sá út kom með Ingimundi. Hann nam sèr land með ráði Ingimundar, mágs síns, fyrir utan Urðarvatn til Mógilslækjar ok bjó á Grund út frá Jörundar-

fjalli í Vatnsdal, ok var mikill maðr fyrir sèr, sem ætterni hans var til. Már hèt son hans, ok bjó á Mástöðum í Vatnsdal, virðugligr maðr. þeir uxu upp samtíðis ok Ingimundar synir. þá gjörðist fjölbyggðr dalrinn. Hvati hèt maðr, er út kom með Ingimundi; hann nam land frá Mógilslæk til Giljár. Ásmundr nam land frá Helgavatni til Mógils ok um þingeyrasveit Sauðadalr liggr fyrir austan Vatnsdal, en þá Svínadalr, ok þar í Svínavatn, þá Beigaðarhóll. þórólfr hèt maðr ok var kallaðr heljarskinn. Hann nam land í Forsæludal. Hann var újafnaðarmaðr mikill ok úvinsæll. Hann gjörði mikinn úskunda ok úspektir í hèraði. Hann gjörði sèr virki suðr við Friðmundará við gjá eina skammt frá Vatnsdalsá, ok gekk nes eitt í milli gjárinnar ok árinnar, en hamrar stórir fyrir framan Grunaðr var hann, at hann mundi blóta menn, ok var eigi sá maðr í dalnum, at úþokkasælli væri en hann. Á Hrútastöðum hèt þat er Hrútr bjó, en Ásmundr at Gnúpi Óttarr hèt maðr, er bjó á Grímstungum. Hann átti Ásdísi dóttur Ólafs frá Haukagili, þeirra son var Hallfreðr vandræðaskáld, en dóttir Óttars hèt Valgerðr. Hún var ofláti mikill ok væn kona.

17. Nú líða svá stundir. Ingimundr gjörðist aldraðr. Hèlt hann þó ávalt búrisnu sinni. Eigi er getið þingdeilda hans, eða hann ætti stórum málum at skipta við menn, því hann var samhuga við flesta menn ok úágangsamr. Gott var þá mannval víða þar nálægt, þótt hann væri með mestu virðingu; ok hèlt til þess góðgirnd hans, stórmennska

ok vitsmunir. Synir hans uxu upp, ok váru allir gjörfiligir menn, með því móti sem fyrr segir. Þess er getið, at eitt sinn kom skip í Húnavatnsós, er norrænir menn áttu. Stýrimaðr hèt Hrafn. Hann var fálátr í skaplyndi, stór, údæll ok mikill af sjálfum sèr, hafði verit lengi í víkingskap, ok bjóst mjök at vápnum ok klæðum. Ingimundr var vanr fyrstr manna til skips at koma, ok taka af varningi slíkt er honum sýndist, ok enn gjörði hann svá. Hitti stýrimann at máli, ok lèt honum heimila vist með sèr ef hann vildi. Hrafn kvað ok ekki annat sýnna, ok fór heim með Ingimundi, ok hèlt háttum sínum. Hann var mjök einn um sitt. Fleiri höfðu þeir verit með Ingimundi, er honum hafði betr við líkat, því Hrafn var honum ekki fylgisamr, en mjök úlyndislíkir. Jafnan hafði hann í hendi gott sverð, ok renndi Ingimundr augum til sverðsins. Eitt sinn bað hann stýrimann at sýna sèr þat. Hrafn segir, þess mundi kostr. Ingimundr tók við ok brá. Ekki þótti honum þá minna um vert, ok spyrr hvárt hann vildi selja. Hrafn kvað sik eigi svá mikinn fèþurfa, at hann seldi vápn úr hendi sèr, en sagði, at bóndi mundi sjá stað forgiptar sinnar af sèr; kvaðst þar löngum verit hafa, er hann þurfti vápna við, ok kvað svá enn verða mega. Ingimundr þykktist mjök við, ok þótti hann vanvirða sik, ok leitaði sèr ráðs. Ok einn tíma, er hann gekk til hofs síns, stillti hannsvá til, at austmaðrinn fór með honum. Ingimundr talar til hans hugarlátliga þat er hann fann honum bezt í skap falla. Hann vildi gjarna ræða um víking

sína ok herför. Ingimundr gekk inn í hofit fyrri, ok eigi finnr hann fyrr en Hrafn hleypr inn í hofit með sverðit. Ingimundr snýst við honum ok mælti: „Ekki er þat siðr at bera vápn í hofit, ok muntu verða fyrir goðareiði, ok er slíkt úfært nema bætr komi fram.“ Hrafn svarar: „Hèr hefr þú lengi um setið ok ráð til sett, ok ef ek hefi misgjört í lögum yðar, þá ætla ek ráð, at þú gjörir um þat, því þú ert sannsýnn maðr kallaðr.“ Ingimundr kvað þat vænst til bóta, at hann sæmdi goðin, ok lèt þat helzt at duga, at hann gjörði eigi at sjálfvilja sínum, „ok því mun eigi jafnmikilla fyrir ván hefndanna,“ ok kvað þat sannligast, at hann gæfi sverðit í vald hans, því honum leizt þat eiga ok því at stjórna, ok mýkja svá reiði goðanna. Hrafn kvað hann mikit fè annat hafa af sèr gjört, ok eigi þótti honum þetta betra; „ok mun þèr annat stórmannligra fara,“ ok lèt sverðit af hendi. Fór hann í burt um sumarit, ok er hann úr þessi sögu. þetta sverð áttu þeir feðgar meðan þeir lifðu. þat var allra sverða bezt, ok kölluðu Ættartanga. Eyvindr hèt maðr, ok var kallaðr sörkvir. Hann kom út með Ingimundi, ok fór utan eitt sumar, ok þeir þorormr. þeir váru vinir Ingimundar. Hann lèði þeim Stíganda, ok kvaðst forvitni á at vita, þótt hann fari eigi sjálfr, hvárt hann kynni eigi at skríða, því Ingimundr var vinfastr við alla góða menn. þeir komu út annat sumar í Blönduárósi, ok kunnu þat Ingimundi at segja, at skip mátti ekki fríðara

verða. þeir höfðu haft allgóða kaupferð. Eyvindr bjó í Blöndudal, en Gautr í Gautsdal.

18. Hrolleifr hèt maðr, hann var kallaðr hinn mikli; hann kom út í Hvítá ok móðir hans, er Ljót hèt. Lítt var hún lofut í skaplyndi, ok ein var hún sèr í fjölkynngi ok lymsku, ok var þat líkligt, því at hún var fám góðum mönnum lík. Son hennar var henni mjök líkr í skapsmunum. Hrolleifr var bróðurson Sæmundar, fóstbróður Ingimundar. þau fóru á fund Sæmundar, ok sögðu hann frænda sinn. Sæmundr sagðist ekki mega dylja frændsemi við Hrolleif, „en þat er mitt hugboð at ver sè þèr fengin móðir en faðir, ok meir er ek hræddr þú líkist í hennar ætt en föðurfrænda.“ Hrolleifr kvað sèr annat hallkvæmara en illar spár. Sæmundr sagðist mundi veita þeim vetrarvist. Hrolleifr var allra manna sterkastr, ok fór illa með afli sínu við sèr minni menn. Var hann úmjúkr, ok launar ætíð illu gott, með ráði móður sinnar. Hann breytti illa við Geirmund son Sæmundar bæði í leikum ok öðrum hlutum, ok gjörðist fæð á með þeim. Eitt sinn mælti Geirmundr við föður sinn. „þessi frændi okkarr leggr fram vistarlaunin þau sem hann hefr nægst til, en öðrum sè úhallkvæm, þat er hótan ok harðindi með úþirmiligum meðferðum. Hafa sumir hlotið af honum beinbrot ok meiðsl, ok engum hlýðir um við hann at vanda.“ Sæmundr kvað hann víst ver launa en ván var, „ok má eigi um þat hræfa lengi.“ Hrolleifr var við ræðu þeirra feðga, ok kvað þat skammsamligt at krytja um slíka hluti,

en rækja eigi ættmenn sína, „nenni ek víst ekki at ölmusur sparki í andlit mèr.“ Sæmundr mælti: „Svá muntu kalla, en meir hefr þú skap Ljótar móður þinnar, sem mik grunaði en okkar frænda. Nú hef ek hugat þèr landkosti ok bústað út á Höfðaströnd fyrir utan Höfða út frá Unadal. Væri þat mitt ráð, at þú vægðir til við þá, er þar búa næstir sem er Þórðr bóndi í Höfða ok Uni í Unadal eðr aðra fyrirmenn, ok bið þá byggðarleyfis.“ Hann kvaðst ætla, at hann mundi eigi skríða undir skegg þeim. Hrolleifr fór út í dalinn ok móðir hans, ok bjuggu þar. Síðan er þar kallaðr Hrolleifsdalr. Þau vinguðust lítt við menn. Komu þar fram hót ok heitan, ok sýndu búum sínum úþokka í öllum búsifjum. Brátt tóku menn at hatast móti þeim, en þótti Sæmundr hafa sent sèr illt rekald. Þeim þótti í fyrstu eigi gott at mæla í móti, er hann var frændi Sæmundar. En er menn tóku at kynnast þeirra skaplyndi, vildu menn færa þau burt, ok helzt þegit, at aldregi hefði þar komit. Uni var auðigr maðr, ok átti þann son, er Oddr hèt. Hann var frumvaxta. Dóttir Una hèt Hróðný, hún var fríð kona ok vinnugóð. Hrolleifr fór á fund Una, ok kvað eigi vera mega kátt nè glatt í dalverpi því hann væri, þótt menn hefði þat til skemmtanar er mátti. „Nú kalla ek vel sæma,“ segir hann, „at vit festum mágsemd með okkr, ok ek eigi dóttur þína. Má vera ok, at þá batni búsifjar várar.“ Uni kvað hann eigi skaplyndi til þess eiga at fá góðrar konu, „ok eigi sýnir þú þat af þèr, en dóttir mín er eigi úgiptusamlig kona,

ok mun ek synja þèr ráðsins" Hrolleifr kvað hann þá þat upp taka sem úráðligt var, ok skal hún þá vera friðla mín, ok er henni þó fullkosta." Síðan lagði Hrolleifr þangat göngur sínar, ok settist á ræðr við Hróðnýu. Ferr því fram um hríð at úvilja frænda hennar.

19. Þat var eitt sinn at Hrolleifr bjóst heim at fara, at Uni mælti við Odd son sinn: „Eigi sýnist mèr meðal atferðarleysi, er vèr höfumst ekki at um komur þessa manns, ok hættum vèr oss meir á unga aldri, þá er ek börðumst við Kolbein, ok hafði ek hinn efra hlut, ok er hann höfðingi ok mikilli sveit ráðandi, en sá gengr einn til at vinna oss úsæmd." Oddr kvað eigi hógligt at eiga við heljarmann þann ok við fjölkynngi móður hans. „Segja menn hann hafi kyrtil þann, at eigi bíti járn á. Nú mun ek hitta Hrolleif"; ok svá gjörði hann. Þeir fundust upp á fjallinu milli dalanna. Oddr mælti: „Þat er þèr kringast at ganga þessa stigu, en oss þætti betr, at þú færir eigi svá opt". Hrolleifr segir: „Síðan ek var 9 vetra gamall hef ek jafnan sjálfráðr verit,ok svá mun enn. Skal ek þín orð einskis virða hèr um, ok þyki mèr eigi sem torfæra sè á leið minni, þó þú lafir á stigum". Oddr kvað mega svara betr hèr um. Hrolleifr kom heim, ok segir móður sinni, at hann mundi nú taka þræl af verki, „ok fari hann með mèr, því þeir amast næsta við mèr," Ljót kvað þræl eigi þarfara vinna en fylgja honum, „ok hirtu eigi um læti þeirra kotkarla, ok far í kyrtil þinn; vit hversu dugir". Síðan fann Oddr föðr sinn, ok segir, at hann vill finna Sæm-

und, ok segja honum til málsins. Uni kvað sèr illa líka öll frestan sem á yrði. Oddr fór á fund Sæmundar, ok mælti: „Ill sending hefr komit til vár af þinni tilstilli, þar sem er Hrolleifr frændi þinn, ok sitjum vèr honum marga svívirðingu, ok göngum því eigi frekt at, því at hann er þinn frændi". Sæmundr kvað sèr þat eigi úvart koma, „ok væri eigi illa, þó slíkir menn væri afráðnir". Oddr kvaðst ætla, at honum mundi eigi svá þykja, ef þat yrði gjört. Enn þat er þó sá maðr er við alla vill illt eiga, ok virða menn þat til þín, at eigi er at gjört". Oddr fór heim. Uni mælti: „Svá þyki mèr sem Hrolleifr láti eigi af sínum ferðum. Þætti mèr til þín koma, Oddr frændi, því þú ert maðr ungr ok vel til færr, en ek er örvasi fyrir aldrs sakir. Þótt hann sè harðr maðr ok móðir hans margkunnig, þá má eigi svá búit vera". Oddr kvaðst mundi til leita nokkurs. Eitt kveld bjóst Oddr í fyrisátr við Hrolleif; en þeir fóru tveir saman. Oddr spratt upp ok mælti: „Má vera at stöðvist ferð þín at sinni". Hrolleifr mælti: „Má vera ok at stöðvist illska þín ok vefist þèr um fætr". Kvað Hrolleifr en úsýnt, hverr mest mætti fagna at þeirra skilnaði, „þóttú sèrt fjölmennari en ek, ok ætla ek eigi illt þó einhverjum blæði". Síðan hlaupast þeir at ok börðust. Hrolleifr var harðr maðr ok reyndur at afli. Hafði ok kyrtilinn, sem móðir hans hafði gjört honum, ok eigi festi járn á. Nú er frá því at segja, at Oddr vá fylgðarmann Hrolleifs, ok gekk síðan móti Hrolleifi, ok mælti: Illa bíta þik járn, ok alls konar er

þèr illa farit, bæði í fjölkynngi ok í öllu illa siðaðr". Síðan slæmdi Oddr á fót Hrolleifi, ok beit, því kyrtillinn tók eigi þangat. Oddr mælti: „eigi hlífði þèr nú gjörningastakkrinn". Hrolleifr hjó þá til Odds, ok veitti honum banasár, ok annan mann til drap hann, en þrír komust á flótta. Þat var síð um kvöld upp frá bæ Una. Hrolleifr kom heim, ok sagði móður sinni, at þeim hefði illa vegnat, sem móti honum váru. Hún lèt vel yfir því, at búkarlar eða synir þeirra rèðu eigi ferðum hans ok sættu illyrðum við hann. Hrolleifr kvaðst nú launat hafa Oddi orða hrakninginn, „ok þat hann kvað mik ekki samjafnan dugandi mönnum, „en ek spáði honum þat sem nú er fram komit, at vaxa mundi hans svívirðing af okkrum fundi, sem nú gafst honum."

20. Uni fór nú degi síðar á fund Höfða-Þórðar, ok sagði honum sín vandræði, víg sonar síns, „ok vildi ek hafa liðsinni þitt at rètta mál mitt. Liggr þar á mjök við þín sæmd, at úeirðarmenn hefjast hèr ok hvar í hèraði". Þórðr kvað hann satt segja, ok mikill vandi er oss at höndum kominn; en þó er Sæmundr skyldastr at leysa úhæfu frænda sinna". Fóru þeir á fund Sæmundar, ok báðu hann at rètta málit. ok sögðu honum eigi sæma annat. Sæmundr kvað þat svá vera skyldi. Var þá tekin upp byggð Hrolleifs, ok fór hann til Sæmundar ok móðir hans, en menn til fengnir búsins. En á sættafundi um várit lyktuðust svá málin, at Uni tók land Hrolleifs at skaðabótum, en Hrolleifr var gjörr hèraðssekr, svá víða sem fèllu vötn til Skagafjarðar. Sæmundr minntist á forn vinfengi þeirra Ingimund-

ar. Ok er þeir fundust, mælti Sæmundr: „Svá er mál með vexti, fóstbróðir, at maðr sá er kominn til mín, at eigi þykir dæll í skaplyndi. Hann er þó frændi minn, ok heitir Hrolleifr. Nú vilda ek at þú tækir við honum ok við móður hans, ok fáir þeim ráðstafa hjá þèr.“ Ingimundr segir: „Ekki hafa þau góða orðaheill, ok er ek úfúss at taka við þeim, en sýnsemi mun þèr um þykja ok eigi stórmannligt ef ek synja, en í meðallagi er oss til fallit, því ek á sonu, suma eigi mjök skaphæga.“ Sæmundr kvað hann hamingjudrjúgan vera mundu, ok flesta farsælast af honum. Ingimundr lèt þat reynt, ef hèr tækist vel til; ok síðan fór Hrolleifr til Ingimundar ok móðir hans Ljót með litlum orðstír.

21. Nú váru þau Hrolleifr með Ingimundi tvá vetr eðr þrjá. Þau skiptu ekki skapsmunum sínum svá við sonu Ingimundar sem aðra menn. En þeir þoldu þat illa, einna verst Jökull. Þeir áttu svá marga ok harða leika, at við meiðingar stóð. Jökull kvað illa vera sendinguna, „ok sætir þó hófi,“ segir hann, „ef ekki verðr meira af;“ ok kvað aldregi þann mannfjanda yfir þá ganga skyldi. Engi var munr þeirra á vöxt ok afl, því báðir váru ærit sterkir. Ingimundr mælti: „Illa gjörir þú Hrolleifr, er þú stillir eigi skap þitt, ok launar ekki góðu gott. Nú sè ek, at eigi má svá búit hlýða, ok mun ek fá þèr bústað hèr yfir í Ási.“ Hrolleifr kvað sèr þat ok eigi úvinveittara, „en vera hèr við ill-lyndi sona þinna.“ „Leitt er mèr at segja mèr þik afhentan,“ sagði Ingimundr, „því þat hef ek aldregi gjört, ef ek hef við manni

tekit. Þorsteinn kvaðst ætla at síðar mundi verra. Ingimundr byggði þeim Hrolleifi ok Ljótu bæinn í Ási; bjuggu þau þar lengi, hèlt Hrolleifr sik til jafns við sonu Ingimundar. Í þessu komu út bræðr tveir. Hèt annarrr Hallormr, en annarr Þórormr. Þeir váru auðugir menn, ok váru með Ingimundi um vetrinn. Hallormr hefr upp orð sín ok biðr Þórdísar, dóttur Ingimundar. Honum var vel svarat. Kvað Ingimundr at honum mikinn styrk sakir ríkdóms; ok hún var honum gefin. Fylgði henni heiman Kársnessland. Þeirra son var Þorgrímr, en Þórormr bjó í Tungunni neðri í Vatnsdal. Þat var síðan köllut Þórormstunga.

22. Þess er getið, at veiðr mikil var í Vatnsdalsá bæði á lax ok annat fiskakyn. Synir Ingimundar skiptu með sèr verkum, því þat var siðr góðra manna barna at iðja nokkut í þann tíma. At þessu váru þeir fjórir bræðr, Þorsteinn, Jökull, Högni ok Þórir, en Smiðr var annat at iðja. Þeir bræðr fara í ána, ok fengu mikit af veiðum. Hrolleifr hafði venju sína. Váru þar illar búsifjar við alla þá nær váru. Var þat ok ekki vinaráð, at Ingimundr tæki nokkurn tíma við Hrolleifi. Synir Ingimundar tóku því allilla, at Hrolleifr sat í kosti þeirra, en miðlaði illu einu í mót, ok kölluðu þat mjök á orðit föður sínum, at hann tók hann nokkurn tíma. Þeir áttu allir veiði saman Hofsmenn ok Hrolleifr, en svá var fyri mælt, at Hrolleifr skyldi hafa veiði, ef ekki kæmu Ingimundar synir til eðr þeirra menn; en at því gaf hann eigi gaum, því

hann matti meir vilja sinn ok ranglæti en hvat skilit var. Ok eitt sinn sem húskarlar Ingimundar komu til árinnar mæltu þeir til Hrolleifs; at hann skyldi rýma netlögin fyri þeim. Hrolleifr kvað sik engan gaum at því gefa, hvat sem þrælar segði. þeir sögðu þat betr sóma at halda eigi kappi við Hofsmenn, ok kváðu honum þat eigi endast mundi, þótt hann kæmi því fram við aðra. Hrolleifr bað þá í burt dragast vánda þræla ok hætta sèr ekki. Hann keyrði þá á burt hrakliga ok úmakliga. þeir sögðu: „Illa gjörir þú, svá mikils góðs sem Ingimundr er makligr af þèr, því hann tók við þèr, ok gaf þèr bæði bú ok veiðina ok margt gott annat, þar áðr þóttir þú hvergi hæfr með dugandi mönnum.“ Hrolleifr kvað sik eigi skyldan at ganga úr ánni fyrir þrælum, ok lætr vaða stein til eins þeirra svá sá liggr í svíma, ok lèt þeim skyldi eigi hlýðast at vera fjölyrðum. þeir fóru heim, ok komu er menn sátu undir borðum. þeir fóru flumusa. Ingimundr spyrr, hví þeir færi svá hrapalliga? þeir kváðust vera reknir úr ánni með meiðingu ok illum orðum af Hrolleifi. Jökull segir hann mundi vilja gjörast Vatnsdælagoði, ok illa vilja búa við oss sem aðra fyrr, en þat skal aldregi verða, at sá manndjöfull kúgi oss. þorsteinn kvað ofmikit bragð at vera, en þó vænzt at gæta með stillingu ok var úfyrirsynju nokkurn tíma tekit við Hrolleifi. „Nokkut er til þess hæft,“ kvað Ingimundr, en þó gjörit svá vel at þèr sættist á þat, því at þèr eigit újöfnum til at verja. Hann er heljarmaðr; því er ván illt hljótist af honum.“

Jökull kvað reynt skyldi, hvárt hann gengi úr ánni, ok hljóp undan borðum. Ingimundr mælti: „þorsteinn frændi! þèr treysti ek bezt um alla stilling. Far með bræðrum þínum.“ þorsteinn kvaðst eigi vita, hversu hægt mundi at halda Jökli, „en ekki mun ek standa þá hann berst við Hrolleif.“ En er þeir komu at ánni, sáu þeir, at Hrolleifr veiddi úr henni. þá mælti Jökull! „Dragstu úr ánni, fjandi! ok dirf eigi þik at þreyta við oss, ella skulum til fulls með oss reyna.“ Hrolleifr segir: „þó þèr sèut þrír eðr fjórir, mun ek halda sýslu minni fyrir blóti yðru.“ Jökull segir: „þú treystir mjök tröllskap móður þinnar, ef þú bannar oss veiðina einn öllum.“ Jökull slæst þá í ánni at honum, en Hrolleifr fór eigi burt. þorsteinn mælti: „Lát af þrályndi þínu Hrolleifr, því þat mun þèr at meini verða, ef vèr náum eigi rètti af þèr, þó má vera at fleiri gjaldi. Dugir ok eigi, at þú gangir yfir oss með rangindum.“ Jökull mælti þá: „Drepum nú fjanda þenna!“ þá lætr Hrolleifr hefjast at landi, því grjót var fyri, ok grýtti at þeim, ok þeir í móti um ána þvera, en sumir skutu. Var Hrolleifr eigi skeinusamr. Jökull vill ráðast at honum annarstaðar yfir ána, ok kvað eigi meðalskömm í vera, ef þeir bæri eigi af honum allir. þorsteinn segir: „Hitt er mitt ráð, at víkjast aptr hingat, ok eiga heldr undir oss en gefast í greipr þeim, mæðginum, því ek hygg hann skammt frá hefjast, ok er eigi sem menn reyni sik við dugandi menn, þótt vèr eigum við gjörninga þeirra.“ Jökull kvaðst eigi þat hirða, ok leitar at fara, en

bræðr hans grýta og skjóta at Hrolleifi. Kom nú maðr heim til Hofs hlaupandi, ok segir Ingmundi, at í úefni var komit, ok þeir börðus um ána þvera, ok er búi þinn færstum líkr. Hann mælti: „Búit hest minn. Ek vil til ríða“ Hann var þá gamalt ok nær blindr, ok hafði af höndum látið öll fjárforráð sonum sínum. Var honum fenginn búsveinn til fylgðar. Hann var í blárri kápu, ok leiddi sveinninn undir honum. Ok er þeir komu á árbakkann sjá þeir hann. Þorsteinn mælti: „Kominn er faðir várr, ok látum hefjast undan, ok mun hann ætla, at vèr munum gjöra vilja hans, en hræddr er ek við komu hans,“ ok bað nú Jökul hepta sik. Ingimundr reið at ánni, ok mælti: „Gakk úr ánni Hrolleifr, ok hygg hvat þèr hæfir!“ Ok sem Hrolleifr sá hann ríða á ána, skaut hann til hans spjóti. Kom á hann miðjan. Ok er hann fèkk lagit, reið hann at bakkanum aptr, ok sagði: „Þú sveinn fylg mèr heim.“ Ok leiddi sveinninn undir honum heim, ok hitti hann ekki sonu sína. Ok er þeir komu heim, var mjök liðit á aptan. Ok er Ingimundr skyldi af baki fara, segir hann: „Stirðr er ek nú, ok verðum vèr lausir á fótum gömlu mennirnir.“ Ok er sveinninn tók við honum, þaut í sárinu, ok sá hann spjótið í gegnum hann standa. Ingimundr mælti: „Þú hefr mèr lengi trúrr verit, ok gjör nú sem ek býð þèr, meiri ván ek kreti fás hèðan af. Far þú nú, ok seg Hrolleifi áðr morgun kemr. Get ek at synir mínir þykist eiga þangat at sjá eptir föðurhefndum sem hann er, ok gæti hann síns ráðs, svá hann fari í burt áðr dagr kemr.

Mín er eigi at betr hefnt þó hann deyi. En mèr sómir at skjóta skjóli yfir þann, er ek hefi áðr á hendr tekizt, meðan ek má um mæla, hvernig sem síðar ferr.“ En hann braut spjótið af skapti, ok gekk inn með fulltingi sveinsins, ok settist í öndvegi sitt. Bað eigi ljós gjöra áðr synir hans kæmi heim. Sveinninn kom til árinnar, ok sá þar laxa marga, er Hrolleifr hafði veitt. Sveinninn mælti: „þat eru sannindi, at þú ert mestr mannhundr. þú hefr þat gjört, at vèr munum aldregi bætr bíða, veitt Ingimundi bónda bana, ok bað hann mik segja þèr, at þú skyldir eigi morguns heima bíða, ok kvaðst ætla, at synir sínir mundi eiga til þín föðurhefnda at leita. Nú gjörða ek þetta meir af bón hans, en hitt at þú værir mèr svá sparr undir öxi þeirra bræðra.“ Hrolleifr segir: „Ek trúi því þú segir, en eigi skyldir þú hèðan heill fara hefðir þú ekki þessi tíðindi sagt.

23. Nú er at segja frá Ingimundar sonum, at þeir koma heim um kvöldit, ok ræddu með sèr at Hrolleifr væri endemismaðr. þorsteinn mælti: „Enn vitum vèr eigi gjörla, hversu illt hefr af honum hlotizt, ok segir mèr eigi eitt um ferð föður várs.“ þeir komu heim, ok gekk þorsteinn í eldaskálann, ok drap niðr höndinni, ok spurði hvat þar væri vátt. Húsfreyja sagði þat mundi runnit hafa af klæðum Ingimundar bónda. þorsteinn segir: „þetta er hált sem blóð. Kveikit ljós skjótt!“ Ok svá var gjört. Sat þá Ingimundr í öndvegi sínu, ok var þar dauðr. Stóð þá spjótið í gegnum hann. Jökull mælti: „Aliillt er slíkt at vita um svá

göfugan mann, at slíkt illmenni hefr honum at bana orðit, ok förum þangat ok drepum hann.“ Þorsteinn mælti; „Eigi kanntu góðgirni föður várs, ef hann hefr honum eigi undan skotit, eðr hvar er nú sveinn sá, er honum fylgði. Nú sèst hann eigi. Eigi get ek nú Hrolleifs heima at vænta, ok munum vèr verða með ráðum eptir at leita, en eigi með áhlaupum. En við þat megum við huggast, mikill munr er með þeim Hrolleifi, ok þess mun faðir várr njóta frá þeim sem sólina hefr skapat ok allan heiminn, hverr sem sá er; megum vèr vita, at sá muni mikill vera.“ Jökull var þá svá óðr, at varla gátu þeir stillt hann. Í því bili kom sveinninn, ok segir sitt erindi. Jökull kvað þat úþarft. Þorsteinn segir: „Eigi er honum um at kenna, því hann gjörði sem faðir várr vildi.“ Ingimundr var lagðr í bátinn frá Stíganda, ok búit um virðugliga sem þá var siðr um tigna menn. Þetta spurðist víða, ok þótti sem var mikil tíðindi ok ill. Þorsteinn mælti við bræðr sína: „Þat sýnist mèr ráðligt, at vèr setjumst ekki í sæti föður várs hvárki heima nè á mannfundum meðan hans er úhefnt.“ Svá gjörðu þeir, ok sóttu lítt leika eðr mannfundi. En er Eyvindr sörkvir frá þetta, þá mælti hann við fóstrson sinn: „Far þú ok seg Gauti vini mínum hvat ek tek til. Slíkt þótti mèr honum til liggja.“ Síðan brá hann saxi undan skikkju sinni, ok lèt fallast á, ok dó svá. Ok er Gautr spyrr þetta, mælti hann: „Erat vinum líft Ingimundar, ok skal neyta góðs bragðs Eyvindar vinar míns, ok brá saxi fyri brjóst sèr,

ok drap sik svá. Hermundr hèt son hans Eyvindar, ok Hrómundr hinn halti, er síðar getr.

24. Látum þar nú fyrst bíða, en segjum nokkut frá Hrolleifi. Hann hittir móður sína, ok segir henni tíðindin. Hún kvað engan komast fyri sitt skapadægr; ok kvað Ingimund lengi hafa aldrs notið. „þat er mitt ráð," segir hún, „at þú farir burt sem fyrst, því at blóðnætr eru bráðastar. Vitja þá hingat, er mèr þætti vænst, at nokkut yrði at framkvæmd um mína ráðagjörð. En ek sè eigi þat á millum, hvárt drjúgara verðr vitsmunir þorsteins ok gipta en brögð mín.." Síðan fór Hrolleifr norðr til Skagafjarðar, ok kom í Sæmundarhlíð, ok var Sæmundr þá andaðr. Geirmundr rèði þá fyri eignum. Bróðir hans hèt Arnaldr. Geirmundr spyrr tíðinda. Hrolleifr segist segja líflát Ingimundar bónda á Hofi. Geirmundr svarar: „þar fór nýtr maðr. „Hverr varð honum at bana?" Hrolleifr svarar: „Hann var hafðr at skotspæni," ok sagði allan atburð. Geirmundr segir: „þat sè ek, at þú ert hinn versti úhappamaðr. Far hèðan, ok kom hingat eigi aptr, hin vánda mannfýla:" Hrolleifr kvaðst hvergi fara mundi, ok skal ek hèr drepinn þèr til svívirðingar. Man ek enn, at faðir minn fèll í liði föður þíns ok Ingimundar, ok hefr þat af þèr hlotizt ok þínum mönnum." Geirmundr kvað þat dugandi menn henda at falla í bardögum, „ok fram mun ek þik selja, þá Ingimundar synir koma." Hrolleifr kvað honum þess at ván ok annars verra. Hann var þar á laun í gjörfibúri. Ingimundar synir váru heima um vetr-

inn ok sátu á úæðra bekk, ok fóru til engra leika eðr þinga. Ok er skammt var til sumars, heimti þorsteinn bræðr sína á tal ok mælti: „Öllum oss ætla ek þykja einn veg gefit, at mál mundi vera at leita föðurhefnda, en ekki er þat all-auðsóttligt. Sýnist mèr þat ráð, at sá sem ráðleitni hefr eptir at leita, at sá skal kjósa einn kjörgrip af eigu várri." þeir kváðust þat vilja „ok ertu bezt til fallinn af oss sakir vitsmuna."

25. Um morguninn var þorsteinn snemma á felli, ok mælti til bræðra sinna: „Nú skulum vèr búast norðr til hèraða, hvat sem fyri starf kemr." þeir váru saman bræðr, en ekki fleiri menn. þeir komu at kvöldi eins dags til Geirmundar, ok tók hann allvel við þeim. þeir váru þar um nóttina í góðum beinleika. Um morguninn mælti þorsteinn til bræðra sinna: „Nú skulu þèr vera at tafli í dag, en ek mun tala við Geirmund." þeir gjörðu svá. þorsteinn mælti til Geirmundar: „því erum vèr bræðr hèr komnir, at vèr leitum at Hrolleifi, er vèr hyggjum hèr vera kominn. Ertu ok mjök skyldr til at veita oss, þar sem þèr sendut föður várum þenna mannfóla, er svá illt hefr af hlotizt, þótt þat sè eigi af yðrum vilja. Á hann ok enga góða frændr utan þik einn." Geirmundr segir: „Allt er slíkt satt, ok er vitrliga eptir leitað. En eigi er Hrolleifr hèr." þorsteinn svarar: „Hitt ætla ek sannara, at hann sè í útibúri þínu. Tak hèr nú hundrað silfrs, ok lát hann í burtu, ok skal ek svá tilstilla, at hann sè eigi tekinn á þínum varnaði, svá þat sè þèr lagit til á-

mælis, en vèr munum þá eptir honum leita, þó föður várs sè eigi at hefndara. Seg honum, at þú hafir eigi traust til at halda honum fyrir oss ok sitja fyrir fjandskap várum." Geirmundr segir: „Nú skal ek við ganga, at hann er hèr, ok virði nú hverr sem vill. Mun ek nú svá gjöra sem þú leggr ráð fyrir at segja honum at hann fari á burt, ok leitizt þèr þá eptir honum, er hann er eigi hjá mèr." „Svá skal vera," segir Þorsteinn. Geirmundr hitti nú Hrolleif, ok segir: „Hèr eru komnir Ingimundar synir, ok leita eptir þèr, ok muntu eigi lengi eiga vist hjá mèr, því ek vil eigi setja mik í hættu fyri þik eðr fè mitt fyri málefni þín ill. En þeir bræðr eru mjök ráðugir ok atgöngumenn miklir." Hrolleifr segir: „Þat er ván at þèr muni klækiliga verða, ok hafðu alla úþökk fyri þína liðveizlu, ok verð á burt skjótt." Geirmundr mælti: „Þat mun ek gjöra." Síðan hitti hann Þorstein, ok segir: „Þat þykir mèr bezt til mín gjört, at þèr hrapit at engu, ok setìst hèr í dag." Hann kvað svá vera skyldi. Bjuggust síðan annan dag yfir skörðin, er þeir höfðu á verit, ok sáu manns sporin á snjónum. Þá mælti Þorsteinn: „Nú skulum vèr niðr setjast,, ,ok mun ek segja yðr viðtal okkar Geirmundar. Ek varð varr at Hrolleifr var þar. Jökull mælti: „Þú ert kynligr maðr, vildir sitja kyrr, en föðurbani þinn var hjá þèr, ok ef ek hefði vitað þat, skyldi ek eigi kyrr með öllu verit hafa." En Þorsteinn kvað þess eigi örvænt, „en þat sómir betr, at gjöra eigi Geirmund beran at þessu. Nú skulum vèr fara fullum dagleiðum ok vita hvárt

vèr komum síðar vestr en hann, því heim munu liggja spor hans, ok nú mun Ljót móðir hans blóta í mót sumri, sem hún er vön at fornum sið, en þá mun eigi fram koma hefndin, ef áðr er framit blótið.“ Jökull mælti: „Skundum þá;“ en hann var þá fremstr á stignum af öllum þeim, ok leit hann þá aptr ok mælti: „Illt er þeim manni, er ölmusur er at vexti ok færleik, sem er þorsteinn bróðir minn, ok mun nú dragast úr hendi hefndin, er vèr komumst hvergi.“ þorsteinn svarar: Eigi er enn sýnt, at minna megi ráðagjörðir mínar en áhlaup þín úvitrlig.“ Síð um aptan komu þeir ofan at bænum á Hofi ok sátu menn undir borðum.

26. þorsteinn hitti úti smalamann sinn, ok sagði: „Far þú til Áss, ok drep á dyrr, ok hygg at, hversu skjótt er til hurðar gengit. Kveð meðan vísur, ok gjör þèr til erindis at spyrja at sauðum, ok muntu spurðr, hvárt vèr erum heim komnir, en þú skalt segja, vèr sèum eigi heim komnir.“ Sauðamaðr fór til Áss ok drap á dyr, ok eigi var fyrr at gengit en hann hafði kveðit 12 vísur, þá kom húskarl út, ok spurði tíðinda, eðr hvárt þeir bræðr væri heim komnir. Hann kvað þá eigi komna. Hann spurði at sauðum sínum. Hinn kvað eigi þar vera. Sauðamaðr kom aptr, ok sagði þorsteini, hvat margar vísur hann hefði kveðit. þorsteinn kvað hann þá stund hafa úti staðit, at margt mátti inni athafast á meðan, „eðr komstu inn? Hann kvaðst inn hafa komit ok skyggnzt um. þorsteinn segir: „Var bjartr eldr á arni?“ Hann svarar: „Svá nokkut sem fyri litlu mundi hafa kveiktr

verit.“ Þorsteinn spurði: „Sástu nokkut nýlunda í húsinu?“ Hann kvaðst sèt hafa hrúgu eina mikla „ok kom fram undan rautt klæði.“ Þorsteinn segir: „Þar muntu Hrolleif sèt hafa ok blótklæði hans. Nú mun þangat eptir at leita, ok búumst skjótt, ok vitum hvat gjörist.“ Þeir fóru ok komu í Ás, ok var eigi manna úti. Þeir sáu hlaðit skíðum við húsvegginn tveim megin mænis. Þeir sjá hús lítið standa fyri dyrum, ok hlið á milli bæjardyra. Þorsteinn mælti: „Þetta mun vera blóthús, ok mun Hrolleifr þangat ætla, þá hann hefr fullgjört sitt efni, ok allan sinn fjandskap. En mèr er minna um þat. Nú gangit þèr í krókinn hjá húsinu, en ek mun sitja yfir dyrum uppi, ok hafa kefli í hendi. En er Hrolleifr gengr út, þá mun ek kasta til yðar keflinu, ok hlaupit þá til mín.“ Jökull mælti: „Auðsèt er þat bróðir, at þú vilt virðing af þessu hafa sem öllu öðru, en ek vil eigi þat, ok mun ek sitja við kefli.“ Þorsteinn mælti: „Þú munt ráða vilja. Þó eigi sè svá betr, því mèr þykir þú ráðinn til nokkurra slysa.“ Jökull settist á skíðahlaðann. Vánum bráðara kom út maðr ok skoðaði hjá dyrunum ok sá eigi mennina er komnir váru. Þá kom út maðr annarr, ok þriði, ok var þat Hrolleifr. Jökull kenndi hann gjörla, ok vatzt við hart svá fèll skíðahlaðinn, ok gat hann kastat keflinu til bræðra sinna, ok hljóp af húsinu ok gat þrifit Hrolleif, svá hann gat eigi undan runnit. Engi var þeirra aflsmunr, ok ultu báðir ofan fyrir brekkuna, ok lágu ýmsir undir. Ok er þeir bræðr komu at, mælti Högni: „Hvaða fjandi ferr hèr at oss,

er ek veit eigi hvat er.“ þar ferr þá Ljót, ok hefr breytiliga um sik búit. Hún hafði rekit fötin fram yfir höfuðit, ok fór öfug, ok rètti höfuðit aptr milli fótanna. Úfagrligt var hennar augnabragð, hversu hún gat þeim tröllsliga skotið. þorsteinn mælti til Jökuls: „Dreptu nú Hrolleif! þess hefr þú lengi fúss verit.“ Jökull mælti: „þess er ek nú albúinn“, ok hjó af honum höfuðit, ok bað hann aldri þrífast. „Já, já“, sagði Ljót, „nú lagði allnær, at ek mundi vel geta hefnt Hrolleifs sonar míns, ok eru þèr Ingimundar synir gæfumenn miklir. þorsteinn spyrr: „Hvat er nú helzt til marks um þat.“ Hún kvaðst hafa ætlat at snúa þessu landslegi öllu um, „en þèr ærðist allir ok yrðut at göltum á vegum úti með villudýrum, ok svá mundi gengit hafa, hefði ek yðr fyrr sèt en þèr mik.“ þorsteinn kvað þess ván, at hamingjan mundi skipta með þeim. Síðan drápu þeir Ljót kerlingu, ok dó hún í móð sínum ok trölldómi, ok eru þau úr þessi sögu, ok fóru bæði allilla.

27. Eptir dráp Hrolleifs ok Ljótar fóru þeir bræðr heim, ok urðu menn þeim fegnir. Síðan sagði þorsteinn til bræðra sinna: „Nú þykist ek kominn til at kjósa kostgrip nokkurn.“ þeir játuðu því. „þá kýs ek mèr bæinn at Hofi ok land með búinu.“ þeir kváðu þat varla einn grip vera, ok þótti frekliga áhorft. þorsteinn kvað allt eiga at fara land ok bú, þótt yðr þyki nokkut frekliga horfa, þá er á hitt at líta, at vár virðing mun þá mest, at vèr sèum sem sáttastir, ok þat annat, at ek sjái helzt fyri. Eru hèr ok fleiri kostgripir, ok ann ek yðr þeirra allvel.“ Var þá lagt til skiptishluta. Hlaut

Högni skipit Stíganda, því hann var farmaðr. Þórir hafrsþjó hlaut góðorðit, en Jökull Ættartanga. Hafði hann sverðit á leiðmótum ok hestaþingum, Þorsteinn bar þat á leiðum ok lögfundum því Jökull vildi at svá væri. Þórir segir ok slíkum orðum, þótt hann ætti goðorðið, þá ynni hann Þorsteini bezt allra virðinga at málaferlum. Þorsteinn segir: „Þat er mjök auðsætt, at þèr bræðr munit mèr í öllu sæmdar leita. En þótt ek hafi kosit mèr bústaðinn, þá ann ek yðr fjár fyri. Nú þyki mèr ráð, at vèr færum sess várn í öndvegi föður várs.“ Svá gjörðu þeir. Þorsteinn gjörðist höfðingi yfir Vatnsdælum ok Vestrhópi ok öllum sveitum, er faðir hans hafði forráð áðr yfir haft. Þorsteinn átti þá konu, er Gyða hèt, ok var Sölmundar dóttir. Guðmundr son hans var faðir Víga-Barda. Þótti þá virðinga vænligt at tengjast við Vatnsdæla. Jökull bjó í Tungu, Smiðr á Smiðstöðum, Þórir hafrsþjó bjó at Nautabúi; þat heitir nú Undirfell.

28. Nú skal segja frá þeim mönnum, er fyrr váru nefndir. Einn hèt Þórólfr sleggja. Hann gjörðist hinn mesti úspektarmaðr. Bæði var hann þjófr, ok þótti um annat stórilla fallinn. Þótti mönnum með stórum meinum hans byggð, en einskis ills örvænt af honum; ok þótt hann hefði eigi fjölmenni hjá sjer, þá átti hann þó þá hluti, sem hann vænti styrks af; þat váru 20 kettir. Þeir váru allir svartir, ákafliga stórir, ok mjök trylltir. Fóru menn til Þorsteins, ok sögðu honum sín vandræði, ok lètu til hans koma um alla hèraðsstjórn, ok sögðu Þórólf fyrir mönnum stolit, ok gjört margt

úmannliga annat. þorsteinn kvað þá satt segja, en úhægt er við heljarmann at eiga, ok við köttu hans, ok þar til spara ek alla mína menn. þeir segja hann varla mega sæmd sinni halda, ef eigi væri at gjört. Eptir þat safnar þorsteinn mönnum, ok vildi undir sèr eiga fyri mannfjölda sakir. Með honum váru bræðr hans allir, ok austmaðr hans. þeir fóru á Sleggjustaði. þórólfr gaf sèr eigi at. Aldregi mátti hann góða menn með sèr hafa. Hann gekk inn, er hann sá mannreiðina, ok segir: „Nú er við gestum at taka, ok ætla ek þar til köttu mína, ok mun ek setja þá alla í dyr út, ok mun seint ráðast inngangan, ef þeir verja dyrnar. Síðan magnaði hann þá mjök, ok váru þeir þá stórum illiligir með emjan ok augnaskotum. Jökull mælti við þorstein: „Nú tak gott ráð, at þú látir eigi mannfjandr þessa kyrra sitja.“ þeir váru alls 18 menn. þórólfr mælti: „Nú skal elda gjöra, ok hirði ek eigi þó reykr fylgi, því at koma Vatnsdæla mun eigi friðsamlig.“ Hann lèt ketil í eld, ok bar undir hvers kyns harka ok ull, svá hús fylltist af reyk. þorsteinn gekk at dyrum ok mælti: „Útgöngu beiðum vèr þik þórólfr!“ Hann kvaðst ætla, at þat eitthvat mundi vera þeirra erindi, sem úvinsamligt væri. þá tóku kettirnir til at amra ok illa láta. þorsteinn mælti: „þetta er ill sveit.“ Jökull mælti: „Göngum inn, ok hirðum eigi um ketti þessa.“ þorsteinn kvað þat eigi skyldu, „því meiri ván er, at vèr höldum eigi heilu öllu liði váru með öllu saman, kettunum ok vápnum þórólfs, því hann er garpr mikill, ok þætti mèr betr,

hann gæfi sik sjálfr upp ok gengi út, því at meiri efni hefr hann til eldinga en honum megi vel eira." Þórólfr reiddi ketilinn af eldinum, ok felldi á allan ullarhlaðann, ok lagði út remmuna, svá at þeir Þorsteinn máttu eigi vera allnær dyrum. Þorsteinn mælti þá: „Varizt köttuna, at þeir hremsi yðr ekki, ok fleygjum eldinum at húsum." Jökull þreif eldibrand mikinn, ok fleygði upp at dyrum, en kettirnir hörfuðu undan, ok fèll hurðin aptr við þat. Veðrit stóð á húsit, en bálit tók at vaxa. Þorsteinn mælti: „Stöndum við garðinn þar reykr er mestr, ok sjáum, hvat hann tæki til, því meiri efni hefr hann um eldagjörð en þat megi honum lengi duga." Varð Þorsteinn þess ok nærgætr. Hljóp Þórólfr þá út með kistr tvær af silfri fullar, ok fór með reyknum. Ok er hann kom út, var þar fyri austmaðrinn ok mælti: „Hèr ferr nú fjandinn, ok er all-illiligr." Austmaðrinn hljóp eptir honum ofan til Vatnsdalsár. Þórólfr kom þar at, ok váru þar augu djúp eðr fen. Þórólfr sneri þá á móti ok greip til hans, ok bar hann undir hönd sèr, ok mælti: „Til rásar hefr þú nú, ok förum at því báðir saman, ok hljóp í fenit, ok sukku svá at hvárrgi kom upp. Þorsteinn mælti: „Stór illa hefr nú til tekizt, er austmaðr minn hefr týnzt, en þat er bót, at endast mun fè Þórólfs til at bæta hann." Ok svá var gjört. Þar heita Sleggjustaðir, er Þórólfr hafði búit, ok sáust jafnan kettirnir, ok illt þótti þar ávalt síðan. Sá bær er ofan frá Helgavatni.

29. Már Jörundar son færði bú sitt af Grund á Másstaði. Góð var frændsemi með þeim Ingimundar sonum. Þat var til tíðinda eitt haust, at Mávi hurfu sauðir nokkurir, ok var víða leitað, ok fundust eigi. Þorgrímr hèt maðr, ok var kallaðr skinnhúfa. Hann bjó á Hjallalandi. Hann var mjök fjölkunnugr, ok þó at öðru illa. Var nú orðræða mikil á um sauðahvarfit, því mönnum þótti dalrinn víða vel skipaðr. Eitt kvöld, er sauðamaðr kom heim, spurði Már tíðinda. Hann sagði, sauðir hans væri fundnir, „ok hefr engi illr af orðit; en þó fylgir annat meira. Land hef ek fundit í skógum, ok er ágæta jörð, ok hafa sauðirnir þar verit, ok eru allvel holdir.“ Már spurði: Hvárt er þat í mínu landi eðr annarra. Hann kveðst ætla, at honum mundi berast, en þó liggja við lönd Ingimundar sona. Má ok úr þínu landi at eins ganga. Már sá landkostinn, ok þótti góðr, ok eignaði sèr. Þorgrímr kvaðst ætla, at þeir mundi haldit fá landinu fyri Ingimundar sonum. Þorsteinn spurði þetta, ok mælti: „Mjök þyki mèr, Már frændi minn bera sinn sann á þetta, ok unna oss varla laga.“ Litlu eptir þat hitti Jökull Þorstein bróðr sinn. Varð um margtalat, ok sagði Jökull þat mikil firn, ef menn skyldu ræna þá þar í dalnum, „ok dregst sú mannfýla mjök úþarfi til, hann Þorgrímr skinnhúfa, at reita oss, ok væri hæfiligt, at hann tæki gjöld fyri.“ Þorsteinn kvað hann eigi sparnaðarmann, „en eigi veit ek, hvárt hann er svá þegar uppnæmr.“ Þorsteinn bað, at þeir færi á fund Þorgríms. Jökull kvaðst þess albúinn. Ok er Þorgrímr

varð þess varr, fór hann ok hitti Má. þeir kvödd-ust vel. þorgrímr lèzt kominn af hlaupi, ok sagði Ingimundar syni svá sem þar komna. Már spurði, hvat hann vissi til þess. Hann segir: „þeir eru á ferð komnir til bæjar míns, ok vilja drepa mik, ok mun þat jafnan sýnast, at ek veit fleira en aðrir menn.“ En er þeir komu á bæinn, mælti þorsteinn: „Hèr eigum vèr við hrekkvísan þar þorgrímr er. Hann mun eigi heima vera.“ Jökull mælti: „Gjörum hèr þó nokkut illt.“ þorsteinn kvaðst eigi þat vilja. „Vil ek eigi þat sè mælt, at vèr tökum upp fè hans, en fáum eigi höndlat hann sjálfan, ok förum heim við svá búit.“ Eitt sinn mælti þorsteinn til bræðra sinna: „Forvitni væri mèr at vita, hvárt vèr fyndum eigi þorgrím.“ „Nú er ek albúinn,“ sagði Jökull. Enn ferr þorgrímr at hitta Má, ok mælti: „Enn eru þeir eigi afhuga við mik Ingimundar synir. Vilda ek, at þú færir heim með mèr, ok skulu þeir þat sanna, at ek þori at bíða þeirra heima.“ Már fór þangat, ok riðu at garði Ingimundar synir, ok fundust þeir í túni. þorsteinn mælti: „Eigi ferr þann veg frændsemi vár, Már! sem skyldi. Vilda ek hvárir vægði til við aðra, en þú settir eigi niðr vandræðamenn þá, er bekkjast vilja til við oss.“ Már kvað þá sýna af sèr úvingjarnligar heimsóknir, ok lèzt eigi mundi láta sinn hlut fyrir þeim. Jökull kvað ok einsætt, at þeir reyndi með sèr. þorsteinn kvaðst tregr til vandræða við frændr sína; „en þó er eigi örvænt, at þar komi, ef vèr náum eigi rèttindum.“ þeir fóru á burt, er þeir máttu eigi ná þorgrími fyrir

fjölkynngi hans en mótgangi Más, ok var annat tveggja at Þorgrímr hvarf af bæ sínum, eðr Már sat þar með fjölmenni, ok stóð mál þeirra um hríð.

Í þenna tíma kom Högni Ingimundarson út með skip sitt Stíganda, ok var með Þorsteini um vetrinn, ok segir af ferðum sínum meðan hann hafði utan verit, ok svá, at ekkert skip hafði hann reynt jafngott Stíganda. Mikill orðrómr gjörðist á um hèraðit um málefni þeirra frænda. Jökull hitti opt Þorstein, bróður sinn, ok kvað hann undan eira vilja við Má. Þorsteinn segir: „Svá hefr verit til þessa, en þó munum vèr sitja um Þorgrím, ok segir mèr meðallagi hugr um.“ Þeir bræðr bjuggust heiman einn dag, ok váru hálfr þriði tugr manna, ok váru þeir bræðr 5. Þá mælti Þorgrímr, at enn væri illt í efni. „Þeir munu hèr koma Ingimundar synir brátt.“ Hann hljóp út, ok tók klæði sín áðr, ok hitti Má, ok segir þeir bræðr sèu á ferð komnir, ok er nú mál at búast við ok leiða þeim hlaup þeirra.“ Már safnaði mönnum, Hrómundr son Eyvindar sörkvis var kappi mikill, hann átti dóttur Más, ok var þar á búi. Hann kvað einsætt at þeir reyndi þá með sèr. Þeir váru alls 40, umfram tveir systursynir Más, ungir menn ok vænligir. Þorgrímr mælti: „Þat er ráð at fara á móti Ingimundar sonum,“ ok svá gjörðu þeir. Þorsteinn sá þat, ok mælti: „Nú mun oss gefa til at reyna oss, ok þyki mèr nú ráð, at hverr gefist eptir efnum.“ Jökull brá Ættartanga, ok kvaðst gott til hyggja at reyna hann í hálsi manna Más.“ Þeir fundust í Kársnesi. Þorgrímr segir Mávi: „Ek

mun felast, ok má vera, ek sè eigi úþarfari en þótt ek standi hjá yðr, en ek trúi mèr eigi vel til framgöngu." Már svarar engu, ok tekst bardaginn. Ok er hann hafði gengit um hríð, mælti Jökull: „Ekki hæli ek nú bitinu hans Ættartanga." Þorsteinn mælti: „Slík dæmi eru með oss, ok verðr mönnum várum skeinusamt." Jökull var fremstr af öllum ok hjó til beggja handa. Maðrinn var reyndr at afli, ok hinn mesti fullhugi. Hann hjó svá at lamdist fyrir, en ekki beit. Jökull mælti: „Ertu nú heillum horfinn Ættartangi, eðr hvar er Þorsteinn frændi?" Þorsteinn svarar, „Ok svá sýnist mèr sem þeir standi upp, er ek hefi höggvit, eðr sjáit þèr nokkut Þorgrím?" Þeir kváðust hann eigi sjá. Þá bað Þorsteinn Jökul at víkja frá orrustunni, ok vita hvárt þeir sjái hann ekki; „en þú Högni frændi hald upp meðan bardaganum!" Hann kvaðst svá gjöra mundi. Síðan leituðu þeir hans. Jökull mælti: „Ek sè hvar fjandi kemr upp." Þorsteinn mælti: „Þar liggr nú grenskollinn, ok í því kókaði hann til þeirra þaðan sem hann lá; þat var við ána. Jökull ok þeir bræðr báðir hlupu eptir honum. Þorgrímr komst undan til árinnar. Jökull komst svá nær, at sverðit náði til hans, ok af þat er nam, en þat váru þjóknapparnir báðir allt við bakhlutinn. Þar heitir síðan Húfuhylr, er hann hljóp á kaf. Jökull mælti: „Beit nú Ættartangi." Þorsteinn sagði: „Þess get ek heðan af sè."

Þess verðr nú síðar at geta, er fyrr bar til í bardaganum. Hrómundr gekk hart í móti Högna, ok áttu hart höggva viðskipti, ok lauk svá þeirra

fundi, at Högni fèll fyri Hrómundi. Í því kom Jökull at, ok tók þá í annat sinn æsing sinn hinn mikla, ok sótti at Hrómundi með ákafa. Skorti þá eigi stór högg. Beit þá bæði hans sverð ok annara. Hann hjó á fót Hrómuudi, ok veitti honum svoddan sár, at hann var um æfi örkumlaðr, ok hèt Hrómundr halti. Þar fèllu systursynir Más. Ok er svá var komit bardaganum sáu menn af bæjum fund þeirra, ok fóru at skilja þá. Þar var fyrst fyri Þorgrímr á Kornsá ok aðrir bændr, hann var frændi þeirra Ingimundar sona; ok váru þeir þá skildir. Var sárt margt en allir mæddir. Þorgrímr mælti: „þú Már hefr sýnt þrályndi mikla við þá bræðr í mótgangi. Þeir eru þó ekki þínir líkar við at eiga. En þat er mitt ráð, at þú vægðir til við þá, ok selìr Þorsteini, sjálfdæmi“ Hann kvað þetta heilt ráð, ok sættust at þessu. Þorsteinn kvaðst eigi mundi gjörð upp lúka fyrr en á nokkuru lögþingi. Fóru menn heim af þeim fundi. Ok er þat þing kom, at Þorsteinn skyldi gjörð upp lúka, fjölmenntu þeir mjök Hofverjar. Þorsteinn mælti: „Þat er flestum kunnigt hèr um sveitir, hversu fór um fund várn Más, frænda várs, ok svá hitt, at þat mál er undir mik komit. Er þat nú gjörð mín, at jafnt skal víg Högna bróður míns, ok ákomur þær er fengu menn Más, smáar ok stórar. Hrómundr skal sekr vera milli Hrútafjarðarár ok Jökulsár í Skagafirði fyrir víg Högna, ok hafi eigi fyrir örkuml sín. Már skal eiga Hjallaland, því úr hans landi at eins má upp ganga, en gjalda oss bræðrum hundrað silfrs. Þorgrímr skinnhúfa skal eigi hafa fyr-

ir sínar ákomur, ok er hann þó verra verðr?“ Síðan fóru menn heim, ok váru sáttir at þessu. Skinnhúfa fór úr hèraði, ok kom niðr norðr á Melrakkasléttu, ok var þar til dauðadags. Þorsteinn átti tvá sonu. Hèt annarr Ingólfr, hann var manna vænstr, en annarr Guðbrandr, hann var fríðr maðr. Jórunni Ingimundardóttur átti Ásgeir æðikollr faðir Kálfs ok Hrefnu, er átti Kjartan Ólafsson, ok Þorbjargar, er köllut var bæjarbót.

30. Frá Þórólfi heljarskinni er þat at segja, at hann bjó fyrst í Forsæludal, ok var illa kenndr af mönnum. Þorsteinn frá Hofi kom til hans, ok kvaðst eigi vilja byggð hans þar, nema hann tæki annan hátt en hann hefr áðr haft, „eðr munum vèr eigi láta kyrrt vera.“ Þórólfr kvað þat vænzt, at Þorsteinn rèði, hvárt hann byggi þar eðr eigi; „en sjálfr mun ek ráða háttum mínum.“ Síðan færði hann bú sitt, ok gjörði sèr virki suðr við Friðmundará. Þórólfr lagðist á fè manna, ok gjörðist hinn mesti þjófr. Hann átti ok blótgrafir, at því menn hugðu, at hann mundi blóta mönnum ok fè. Illt varð honum til eptirgöngu manna þeirra er góðir váru. En þó váru þeir 9 saman, þá er þeir váru flestir, allir hans jafningjar eðr verri. Ok sem þeir spurðu, at Þorsteinn ætlaði at gjöra ferð til þeirra, flúðu sumir úr virkinu, ok vildu ekki bíða. Hèraðsmenn hittu Þorstein ok báðu hann þenna mann af taka, er svá var illr í byggðarlagi, at þeir máttu eigi við búa. Hann kvað þá satt mæla. Sendir Þorsteinn síðan eptir bræðrum sínum Þóri ok Jökli, Á Þóri kom stundum ber-

serksgangr; þótti þat með stórmeinum um þvílíkan mann, því honum varð þat at engum frama. Jökull mælti til þorsteins: „Vel gjörðir þú þat, at þú lætr hèr í dalnum öll illmenni enga uppreist fá“. Síðan fóru þeir 19 saman. Ok er þeir sjá virki þórólfs, mælti þorsteinn: „Eigi veit ek hversu vèr munum virkit sótt fá fyrir árgljúfrum þeim.“ Jökull segir: „þetta er engi torveldi, ek kann gefa þèr ráð til. þú þorsteinn ok menn með þèr skulut skjóta at þeim, ok glettast við þá, en ek mun fara með fá menn, ok vita, ef ek mætti koma á bak þeim í virkit, ok ættu þeir við hvárumtveggjum at sjá“. þorsteinn kvað þat hættuferð mikla. Jökull fór þá upp með ánni við fá menn. þeir þórólfr sjá eigi þat, ok bað hann sína menn vel gefast, „en þó hafa þeir bræðr rammar fylgjur. En leitum þá til leyna várra, ef at oss ekr.“ Jökull komst yfir ána fyrir ofan virkit, ok hafði í hendi öxi mikla, er hann átti. Síðan komst hann at virkinu, ok gat krækt öxinni upp í virkit, ok las sik eptir skaptinu. Hann komst svá í virkit, ok fór snyðjandi at leita þórólfs, ok varð hann eigi fyrir augum. Jökull gat þá at líta þórólf, hvar hann kom upp af blótgröf sinni ok hljóp úr virkinu; en Jökull hljóp eptir honum. Menn Jökuls leita at förunautum hans, ok eru þar eltingar miklar. þórólfr var kominn á eina mýri upp með ánni, en Jökull sótti eptir. Ok er þórólfr sá, at hann mundi eigi undan komast, settist hann niðr á mýrinni ok grèt, ok er hún síðan köllut Grátmýri. Jökull kom þá at honum, ok kvað hann mikla

mannfýlu ok illmenni, en hafa þó engan þróttinn. Jökull hjó hann þar banahögg. Þorsteinn sótti nú ákafliga at virkinu, því illvirkjarnir váru aptr komnir. Jökull skopar á skeið, ok komst í virkit; ok er þeir sjá hann, hlupu þeir undan honum, tveir í nestanga, ok drap hann þá þar báða. Hinn þriði hljóp fyri hamra ofan. Eigi þótti röskvari ferð farin hafa verit en Jökull fór þá. Þeir bræðr fóru heim eptir þetta, ok höfðu unnit mikla hèraðsbót í drápi Þórólfs heljarskinns.

31. Þorsteinn á Hofi var stórlátr í búi sínu við hèraðsmenn. Þar var öllum mönnum matr heimill ok hestaskipti, ok allr annar farargreiði, ok skylt þótti þat öllum utanhèraðsmönnum at hitta Þorstein fyrstan ok segja honum öll tíðindi úr sveitum, ok þat til nýlundu varð. Eyjarengi hèt þat er bezt var með Hofslandi. Þar áttu verkmenn Þorsteins at tjalda á sumar. Þeir sáu einn dag, at 10 menn áðu í engjum ok ein kona. Þeir váru allir í litklæðum. Vesl hafði einn yfir sèr, ok slæður af góðu klæði. Þau sáu, hvat þessi maðr gjörði. Hann brá sverði, ok sneið af neðan þat saurugt hafði orðit í reiðinni, ok kastaði á burt. Þat var spannarbreitt ok mælti, svá at þau heyrðu, at hann kvað eigi vilja reiða eptir sèr saur. Eigi hittu þau mennina. Illa þótti þeim gjört at æja í engjum manna. Griðkona tók þat hann hafði af skorit, ok kvað þenna mann hinn mesta ofláta. Þorsteinn spurði þau tíðinda um kvöldit, en þau kváðust engi segja kunna, ok þó nýlundu nokkura litla. Síðan sögðu þau þat sem þau höfðu

heyrt, ok sèt til manna þessara, ok sýndu þat sem hann hafði skorit af klæðunum. Þorsteinn kvað þetta bragð hvárttveggja at spilla gripum sínum, þótt stykki á, ok síðan at æja í engjum manna nokkurs heimsks manns ok úráðvands ella mikils manns ok ofláta. Þessir menn hafa ok eigi mik hitt sem siðr er fyrir langferðamenn. Nú mun ek geta til þess, at þar hafi verit Bergr hinn rakki, er út hefr komit í sumar, systurson Finnboga hins ramma frá Borg úr Víðidal. Hann er rammr at afli ok mesti ofrkappsmaðr". Var þetta sem annat, þat er Þorsteinn leiddi getur um, at hann var nærgætr. Bergr kom til Borgar, ok tók Finnbogi honum vel, ok spyrr hann tíðinda. Hann segir þat hann vissi. Finnbogi spyrr, hvárt hann hitti Þorstein Ingimundarson. Hann segir nei, sagðist hafa riðit fyrir neðan garðinn. Finnbogi lèt hitt venjuligra at hitta hann fyrst ok segja honum tíðindi. Bergr kvaðst eigi vilja lægja sik svá, at finna hann fyrst, „því at erindi mitt var eigi við hann".

32. Þorgrímr hèt maðr, er bjó á Borg hinni minni í Víðidal. Hann festi sèr konu þá er Þorbjörg hèt ok var Skíðadóttir. Þorgrímr bauð þeim Finnboga ok Bergi til boðsins. Þeir hètu ferðinni. Skyldi brúðkaupit vera at vetrnáttum at Skíðastöðum. Skíði hitti Ingimundar syni, ok bauð þeim til brúðkaupsins. „Því mèr þykir þat eigi með fullum sóma nema þèr komit." Þeir hètu ferðinni. Veðrátta var eigi allgóð, ok illt at fara yfir Vatnsdalsá, ok fórst þeim Víðdælum úgreitt, ok lètu þeir Finnbogi eptir hestana at geymslu bónda þess, er

bjó við ána. Áin var opin um mitt ok lágu at tveimmegin höfuðísar. Bergr mælti: „Ek mun bera fólkit yfir ána, ok svá gjörði hann, ok sótti knáliga. Frost var mikit ok frusu um hann klæðin. Skíði gekk á móti boðsmönnum ok fyrir boðsmenn hans, Þorsteinn ok þeir bræðr, at inna mönnum beinleika, ok við taka klæðum manna. Þorsteinn bóndi gekk mjök at því, ok var hann hverjum manni lítillátari, ok váru gjörfir eldar ok þídd klæði manna. Finnbogi gekk fyrstr, ok átti at sitja í öndvegi gegnt Þorsteini, þá Bergr. Hann var í slæðum ok skinnúlpu. Stóð þetta út af honum, því hann var allr frosinn. Hann þurfti mikit rúm, ok færðist at eldi, ok vildi þíða sik. Hann gekk þar hjá sem Þorsteinn var, ok sagði: „Gef mèr rúm maðr!" Hann gekk svá snúðugt, at Þorsteinn rasaði fyrir, ok við búit, at hann mundi falla á eldinn. Jökull sá þetta, ok varð reiðr mjök. Hann hèlt á Ættartanga, spratt upp, ok hljóp at honum, laust á milli herðanna á Bergi með hjöltunum svá hann fèll við áfram, ok mælti: „Hvat vill skelmir þessi! Viltu eigi hlífa goða várum Vatnsdæla?" Bergr spratt upp, ok var ákafliga reiðr, ok tók til vápna. Stóðu þá menn í millum þeirra, ok hèlt við, at þeir mundi berjast, því Bergi eirði hit versta. Urðu þeir nú skildir. Þorsteinn mælti: „Illa hefr nú tekizt fyrir bráðræði Jökuls bróður, míns. Vil ek bjóða fèbætr, svá Bergr sè vel sæmdr af." Bergr kvað sik eigi fè skorta, ok sagðist hefna skyldi sín sjálfr. Jökull kvað hann æ því vesælla verða mundi sem þeir ættust meira illt við. Skíði bað Finn-

boga í burt fara, svá menn ættust eigi við. Þorsteinn kvað þat eigi hæfa, at ráðahag þeim væri brugðit, ok skulum vèr ríða bræðr á Másstaði með várum mönnum, ok svá gjörðu þeir.

33. Bergr lýsti högginu á Húnavatnsþingi, ok bjó þangat til málit. Síðan komu menn til þings, ok leituðu um sættir. Bergr kvaðst eigi mundi fèbætr taka, ok því at eins sættast, „at Jökull gangi undir þrjú jarðarmen,“ sem þá var siðr eptir stórar afgjörðir, „ok svá lítillæti sik við mik.“ Jökull kvað fyrr mundi hann tröll taka en hann lyti honum svá. Þorsteinn kvað þetta álitamál, „ok mun ek ganga undir jarðarmenit.“ Bergr kvað þá goldit. Hit fyrsta jarðarmen tók í öxl, annat í bróklinda, þriðja í mitt lær. Þá gekk Þorsteinn undir hit fyrsta jarðarmenit. Bergr mælti: „Svínbeygi ek nú þann sem æðstr er af Vatnsdælum. Þorsteinn mælti: „Þat þurftir þú eigi at mæla. En þat mun fyrst í móti koma þessum orðum, at ek mun eigi ganga undir fleiri .“ Finnbogi svarar: Þat er víst eigi vel mælt, en þá kemr eigi mikit fyri vansa Bergs, er hann fèkk af Jökli ,ef þar skal staðar nema, ok þykir yðr allt lágt hjá yðr Vatnsdælum, ok vil ek skora á þik Þorsteinn til hólmgöngu á viku fresti við stakkgarð þann hinn stóra, er stendr í eyjunni fyrir neðan bæ minn at Borg.“ Bergr mælti: „Slíkt hit sama mæli ek til þín Jökull, at ek býð þèr hólmgöngu at ákveðnum tíma, ok skulut þèr þá lútari fara Hofverjar.“ Jökull svarar: „Heyr hvat mannfýlan mælir! at þú dirfist at jafna þèr við oss, ok bjóða mèr hólmgöngu, þat þyki mèr eigi ofætl-

at, þó ek berjumst við ykkr Finnboga báða. Skal ok þat vera, því ek vil leysa undan þorstein bróður minn, því þat er skaði ef honum verðr nokkut til meins, en þat er þó eigi örvænt, ef þeir Finnbogi berjast, því hann er mesti ofrhugi. En hèr er hvárigan at spara sem vèr erum. Fór bykkjan þá flatt hann Bergr ok lútari, er ek sló hann svá hann fèll við. En kom til hólmstefnunnar, ef þú hefr heldr manns hug en merar. En ef nokkurir koma eigi, þá skal þessum reisa ok rista níð með þeim skilmálum eðr formála, at hann skal vera hvers manns níðingr, ok vera hvergi í samveru góðra manna, hafi goðagremi ok griðníðings nafn.“ Skilja þeir við svá búit, ok fór hverr til síns heimilis. Var þetta nú gjört mjök at tíðindum um sveitir. þat bar saman hólmstefnu þessi, ok þorsteinn hafði heimboð á Hofi. Svá gjörði hann hvert haust.

Helga hèt kona. Hún kom út með Bergi. Hún var sögð friðla hans. Hún var mikil kona, skörulig, framsýn ok forspá, ok margkunnig um flesta hluti. Hún mælti til Bergs: Úvitrliga hefr ykkr frændum orðit, at þit ætlit at þreyta hamingju við Ingimundar syni. þat ferr eigi svá, því þorsteinn er kenndr bæði at viti ok gæfu. þat er ok satt mælt til Jökuls, at engi berserkr sè meiri í öllum Norðlendingafjórðungi en hann er. Ertu ekki hans jafningi, þó þú sèrt mikill fyrir þèr. Ok svá mikla sneypu, sem þú hefur áðr fengit af honum, þá fær þú hálfu meiri, ef þit eigist lengr nokkut við.“ Bergr svarar: „Mikit hefr Jökull um mælt, svá

mèr er þat eigi þolandi.“ Helga segir: „þótt þú sèrt svá heimskr, at þú kunnir eigi fyrir þèr at sjá, þá skal ek at gjöra, at sú hólmganga skal eigi verða.“ „Muntu eigi ráða,“ segir Bergr: Eigi vissi Finnbogi þessi ráð.

34. Svá er sagt þenna sama morgun, er fara skyldi til hólmgöngu þessar, þá var á komit svá mikit fjúk, hregg ok illviðri, at engri vættu var úti verandi eðr út komandi. þann sama morgun mjök snemma var barit at dyrum á Hofi. þorsteinn gekk til dyra, ok heilsaði Jökli bróður sínum. Hann mælti: „Ertu búinn, bróðir, til hólmstefnunnar?“ þorsteinn svarar: „þyki þèr einsætt at fara í þessu illviðri?“ Jökull mælti: „þyki mèr víst!“ þorsteinn svarar: „Gakktu inn fyrst, bróðir, ok bíð þar til óveðr batnar.“ Jökull kvaðst eigi vilja bíða á sjer snjó, ok þótt þú vilir hvergi fara, þá skal ek samt fara.“ þorsteinn svarar: „Aldregi skal sá munr vera hreysti okkar, at ek sitì eptir en þú farir.“ þorsteinn gekk inn ok bjóst, ok bað Jökul bíða sín. þorsteinn mælti við boðsmenn sína, at þeir skyldi eigi fyrri burt fara en allgott væri, ok bað húsfreyju ok sonu sína at vinna þeim beinleika. þeir fóru bræðr tveir saman. þá mælti þorsteinn: „Hver er nú ráðagjörð þín bróðir.“ Jökull svarar: „þetta veit ek þik eigi fyrri gjört hafa, at leita ráða undir mik. Mun hèr ok til lítilla at sjá, ef þeirra þarf við. En þó verðr mèr til þessa eigi ráðfátt. Vit skulum fara til Undirfells, ok skal þórir fara með bróðir okkarr.“ þeir gjörðu svá, ok fóru um kvöldit til Faxabrands.

Hann var vinr Jökuls, ok váru þar um náttina. Brandr átti hest föxóttan, er kallaðr var Freyfaxi. Hann var virkr at hestinum, ok þótti góðr, var hann ok öruggr til alls bæði vígs ok annars. Höfðu menn þat fyrir satt, at Brandr hefði átrúnað á Faxa. Um morguninn eptir var hin sama hríð nema meiri væri. Þeir bræðr vildu fara, þó eigi batnaði. Brandr hafði tjaldat sleða með húðum, ok setti fyrir Faxa, ok kvað þá mundi hitta leið báða saman. Jökull mælti: „Þorsteinn ok Þórir skulu í sleðann setjast, en við Brandr munum ganga fyrir. Þeir komu snemma dags undir stakkgarðinn, ok var þá engi kominn. Um morguninn mælti Finnbogi til Bergs: „Ætlar þú eigi Jökul kominn til hólmstefnunnar?“ „Ekki ætla ek,“ segir hann, „því þat er einskis manns at fara í þvílíku veðri.“ „Annarr maðr er Jökull en ek ætla,“ segir Finnbogi, „ef hann er eigi kominn, ok þèr hefði betra verit at ganga eigi jafnlangt fram við hann, ok þola nú eigi hverja skömm á aðra ofan.“ „Þat hafit þit ofsíð sèt,“ segir Helga, „ok svá illt sem nú er frá at taka, þá mun þó síðar verra.“ „Ætlar þú Jökul kominn, Helga,“ segir Bergr. „Eigi mun ek um mæla,“ segir hún. „Hitt ætla ek, sem gangast mun, at hann sè eigi ykkar maki.“ Fellr þetta þar niðr, en þeir fara hvergi. Þeir bræðr biðu til nóns; ok er svá var komit fóru þeir Jökull ok Faxa Brandr til Sauðahúss Finnboga, er þar var hjá garðinum, ok tóku súlu eina, ok báru undir garðinn. Þar váru ok hross, er þangat höfðu farit til skjóls í hríðinni. Jökull skar karlshöfuð á súlu-

endann, ok risti á rúnar, með öllum þeim formála, sem fyrr var sagðr. Síðan drap Jökull meri eina, ok opnuðu hana hjá brjóstinu, ok færðu á súluna, ok lètu horfa heim á Borg. Fóru síðan heimleiðis, ok váru at Faxa-Brands um náttina. Váru nú kátir mjök um kvöldit. Jökull mælti: „Þú ert maðr miklu vinsælli en ek, Þorsteinn frændi, ok átt vini fleiri, en þó er nú svá komit, at mínir vinir duga mèr ekki síðr en þèr þínir. Þorsteinn mælti: „Vel hefr Faxa-Brandr gefizt.“ Brandr kvað gott slíkum mönnum at duga sem Jökull er, „því hann er fárra líki.“ Þeir Faxa-Brandr ok Jökull kváðu þetta gjörningaveðr verit hafa, ok kenndu þat Helgu frá Borg. Þeir bræðr komu heim, ok urðu allir þeim fegnir. Spurðist þetta um allar sveitir, hvat mikla sneypu þeir Borgarmenn hafa fengit fyrir þeim bræðrum.

35. Einhvern tíma skammt frá þessu heimti Finnbogi ok Bergr menn saman um Víðidal, ok urðu saman 30. Helga spyrr, hvert þeir ætluðu. Finnbogi segist eiga ferð í Vatnsdal. Helga segir: „Nú munut þit ætla at hefna á þeim bræðrum; en ek ætla þit farit því fleiri úfarir sem þit eigizt fleira við.“ „Á þat skal nú hætta,“ segir Finnbogi. Helga svarar: „Farit þèr! en eigi mun yðr úannara heim aptr en heiman.“ Þetta spurðist nú brátt víða, ok kom til Hofs til Þorsteins. Hann sendi orð bræðrum sínum, ok komu þeir til hans ok segir hann þeim slíkt, er hann hafði spurt. Gjöra nú þat ráð, at þeir safna mönnum, ok þann dag, er þeirra Einnboga var ván, komu saman 40

manns. Var þar Már á Másstöðum frændi þeirra, ok Eyjúlfr á Kársnesi. Var þá sèn ferð þeirra Finnboga. Þorsteinn mælti: „Nú skulum vèr stíga á hesta vára ok ríða á móti þeim, því ek vil eigi hark þeirra á bæ mínum." Þeir gjöra svá. Jökull mælti: Ríðum á móti þeim vel, ok hlaupum á þá, svá eigi verði viðbúnir." Þorsteinn mælti: „Eigi skulum vèr óðliga láta, ok skal ek hafa orð fyrir oss, því vera má at lítils þurfi við. En veit ek, frændi! þú ert búinn til allra atgjörða." Jökull svarar: „Ván var þess, at þú mundir ekki vilja at lengr stæði mínar ráðagjörðir yfir" „Vel dugði þá, frændi!" segir Þorsteinn, „er þín ráð váru höfð, en nú mun lítils við þurfa." Finnbogi mælti til manna sinna: „Menn ríða frá Hofi ekki allfáir, ok er þat sannast, at fátt kemr Þorsteini úvart. Eru nú tveir kostir fyrir höndum, ok er hvárrgi góðr, at ríða undan heim við svá búit, ok er þat þó sú hin mesta sneypa, eðr hætta á fund við þá, ok er þat þó nokkur áhætta fyrir liðsmun þann, sem mèr sýnist at sè." „Mun nú eigi verða at hætta á eitthvat?" segir Bergr, „ok skulum vèr fyrst finnast." Finnbogi mælti: „Stígum af baki, ok bindum hesta vára, ok höldum oss saman vel," hvat sem í gjörist. Þetta sjá þeir Þorsteinn, ok stíga af baki ok binda hesta sína. Þá mælti Þorsteinn: „Nú skulum vèr ganga til móts við þá, en ek skal hafa orð fyrir oss." Þá mælti Þorsteinn, er þeir fundust: „Hverr er foringi þeirra manna, er hèr eru komnir?" Finnbogi segir til sín. „Hvert er þá erindi þitt hing-

at í dalinn?“ segir þorsteinn. „Opt eru smá erindi um sveitir,“ segir Finnbogi. þorsteinn mælti: „þó get ek at nú sè orðit þat erindi sem ætlat var, þá þèr fórut heiman, þótt annan veg hafi nú at borit en hugsat var, at finna oss bræðr. Ef svá er þá hefr nú vel til borit. Nú vil ek gjöra þèr tvá kosti. Eigi fyri þat, at eigi væri hitt makligra, at þú hefðir einn farit heim til Borgar at sitja þar í búi þínu. Sá eini kostr er, at nú skulum vèr þreyta hólmgöngur várar, en þó með því móti, at nú mun hverr njóta síns brautargengis, ok muntu þá vita hvat þú vinnr á, þó þú sèrt bæði stór ok sterkr; sá annarr kostr, at þú skalt fara burt úr Víðidal um várit, ok vera ekki at vistum millum Jökulsár í Skagafirði ok Hrútafjarðarár, ok ætla þèr aldregi at deila kappi við oss bræðr, En þú Bergr hefr mjök dregizt til úspektar við oss bræðr at úvissu. þú gjörðir mèr ok lítið úspektarbragð fyrst er þú komst í hèraðit. þú áðir þá hestum þínum í engjum mínum, ok ætlaðir mik þat lítilmenni, at ek mundi hirða um hvar hestar þínir biti gras. En þar er Jökull, bróðir minn, lysti þik högg, máttu hafa bótalaust, því at þú afníttir, þá er þèr váru boðnar. Nú skaltu ok eigi í þessu takmarki vera sem Finnboga er bannat, ok hafit þit þá nokkurar menjar várra viðskipta. „Takit nú skjótt annan hvárn kostinn.“ Jökull stóð hjá þorsteini með brugðinn Ættartanga. Finnbogi ok Bergr ganga til hesta sinna ok stíga á bak, ok ríða heim til Borgar. Helga stóð úti, ok spyrr tíðinda. þeir kváðust engi segja kunna

„Vera má yðr þyki svá, en eigi mun þat öðrum þykja, þar þit erut gjörðir hèraðsekir sem illræðismenn; ok hefr nú yfir tekit um ykkar úfarir. Þorsteinn ok þeir bræðr riðu heim til Hofs, ok hverr til síns heimilis. Þakkaði Þorsteinn þeim fylgðina. Sat hann nú enn í virðing um þetta mál sem önnur. Um várit seldi Finnbogi land sitt at Borg, ok rèðst vestr á Strandir í Trèkyllisvík ok bjó þar. Bergr fór á burt, ok er eigi sagt í þessi sögu, hvat hann lagði helzt fyri sik, ok lýkr þar fleira at segja frá viðskiptum þeirra Ingimundar sona.

36. Eitt sumar kom skip í Hrútafjörð. Þar váru á tvær systr, Þórey ok Gróa. Þær fóru báðar at vist til Hofs, ok váru þar um vetrinn með Þorsteini, en báðu hann um várit um staðfestu nokkura. Þórey keypti land at ráði Þorsteins ok bjó þar. En Gróu fèkk hann bústað nær sèr. Þorsteinn hafði brátt ámæli af konu sinni Þórdísi, at hann leggði hug á Gróu vegna fjölkynngi hennar. Gróa bjó til veizlu, ok keypti malt, ok bauð þangat sonum Ingimundar. Hún bauð ok Mávi ok öðrum hèraðsmönnum. Ok þriðju nátt áðr en Þorsteinn skyldi at heiman ríða, dreymdi hann, at kona sú, er fylgt hafði þeim frændum, kom at honum, ok bað hann hvergi fara. Hann kvaðst heitið hafa. Hún mælti: „þat lízt mèr úvitrligra, ok muntu illt af hljóta.,“ Ok svá fór 3 nætr, at hún kom ok ávítaði hann, ok kvað honum eigi hlýða mundi, ok tók á augum hans. Þat var siðvenja þar, þegar Þorsteinn skyldi nokkura ferð heiman fara, at

allir komu þann dag til Hofs, er ríða skyldu. Komu þeir Jökull ok þórir, Már ok aðrir menn, er ríða skyldi. þorsteinn bað þá heim fara, því hann kvaðst vera sjúkr. þeir gjöra svá. þann aptan, er sól var undir gengin, sá sauðamaðr þorsteins Gróu, at hún gekk út andsælis um hús sín, ok mælti: Erfitt mun vera at standa í móti giptu Ingimundar sona.“ Hún horfði upp í fjallit, ok veifði gizka eðr dúki, þeim er hún hafði knýtt í gull mikit er hún átti, ok sagði: „Fari nú hvat sem búit er!“ Síðan gekk hún inn, ok lauk aptr hurðu. þá hljóp aurskriða úr fjalli á bæinn ok dóu menn allir sem inni váru. Ok sem þetta spurðist, ráku þeir bræður á burt þóreyju systr hennar úr sveit. þar þótti jafnan reimt síðan, er byggð Gróu hafði verit, ok vildu menn þar ekki búa upp frá því.

37. þorgrímr á Kornsá gat barn við friðlu sinni, er Vèreiðr hèr; ok af orðum konu hans var barnið út borit. Ástúðligt var með þeim bræðrum Ingimundar sonum, ok fundust opt; ok nú í þetta sinn hitti þorsteinn bræðr sína, ok leiddi þórir hann á götu. þorsteinn spyrr, hverr honum þætti fyrir þeim bræðrum hans. þórir kvað þat eigi gátumál. „þú ert fyrir oss um allar ráðagjörðir ok vitsmuni.“ þorsteinn svarar: „Jökull er brjóst fyrir oss um öll harðræði“. þórir segir enn framar: „Ek er minnst háttar af ykkr bræðrum, því á mik kemr berserksgangr jafnan, helzt þá er ek vilda sízt, ok vilda ek bróðir, með þínum ráðum ok vitsmunum, þú gjörðir þar at nokkut.“ þorsteinn segir: því er ek hèr kominn, at ek hefi spurt, at þorgrímr frændi várr

hefr látit bera út barn af orðum konu sinnar, ok er þat illa gjört. Þyki mèr ok þat með stórmeinum, at þú ert eigi í eðli þínu svá sem aðrir menn.“ Þórir kvaðst hvervetna mundi til vinna, at þetta hyrfi af honum. Þorsteinn kvaðst ok vilja ráð til leggja, „eðr hvat viltu til kosta.“ Þórir segir: „Hvat þú vilt.“ Þorsteinn mælti: Einn er sá hlutr, er ek beiðumst, goðorðit til handa sonum mínum.“ Þórir kvað svá vera skyldi. Þorsteinn mælti: „Nú vil ek heita á þann, sem sólina hefr skapat, því ek trúi hann máttkastan, at sá útími hverfi af þèr, ok skal ek þat gjöra í staðinn fyrir hans sakir, at hjálpa við barninu ok fæða upp til þess, at sá er skapat hefr manninn mætti honum til sín snúa, síðan, því ek get at honum, muni þess auðit verða.“ Síðan stíga þeir á hesta sína, ok fóru þangat til, er þeir vissu at barnit var fólgit, ok þræll Þóris hafði fundit við Kornsá, ok sáu þeir at breitt hafði verit fyrir andlit því, ok kraflaði frá nösum sèr, ok var þat þá nær komit at bana. Þeir tóku barnit, ok fluttu heim til Þóris. Hann fæddi upp sveininn, ok var kallaðr Þorkell krafla. En berserksgangr kom aldregi síðan á Þóri. Komst Þorsteinn svá at goðorðinu. Ólafr bjó á Haukagili, en Óttar at Grímstungum. Hann átti Ásdísi dóttur Ólafs; ok á lögfundum áttu þeir eina búð. Synir Þorsteins uxu upp ok váru gerfiligir menn. Guðbrandr var mikill maðr ok sterkr. Ingólfr var manna fríðastr ok þó mikill. Hann hafði ok atgjörfi yfir aðra menn. Ok á einu haustþingi komu margir menn til samans, ok var leikr stofnaðr. Ing-

ólfr var í leiknum, ok sýndi þá enn atgjöfi sína; ok eitt sinn, er hann sótti eptir knettinum, bar svá til, at hann fló til Valgerðar Óttarsdóttur. Hún svipti at möttli sínum, ok töluðust við um hríð. Honum sýndist konan forkunnarliga fríð; ok hvern dag sem eptir var þingsins kom hann til tals við hana. Eptir þat gjörði hann þangat komur sínar jafnan. Óttar var þat mjök í móti skapi, ok kom á ræðu við Ingólf ok bað hann eigi þat gjöra, er þeim báðum var til úsæmdar, ok kvaðst heldr vilja gipta honum hana með sæmd, en hann fíflaði hana með vanvirðu. Ingólfr kvaðst gjöra mundi um komur sínar sem honum sýndist. Óttar hitti Þorstein, ok bað hann hlut eiga með Ingólfi, at hann úsæmdi sik eigi. Hann kvað svá vera skyldi. Þorsteinn ok Ingólfr töluðust við. „Hví verðr þèr þat fyrir at gjöra Óttari sneypu, ok svívirða dóttur hans. Mun okkr þat verða at sundrþykki, ef þú gjörir eigi at.“ Lèt Ingólfr þá af um tíma. En kvað mansöngsvísur um Valgerði. Óttar fór á fund Þorsteins, ok kvaðst illa una við kveðskap Ingólfs.“ þyki mèr þú skyldr til at leggja nokkut ráða.“ Þorsteinn kvað eigi at sínu skapi gjört. Hefi ek talat við Ingólf, ok tjáir þó ekki. Óttar mælti: „Bæta máttu fè fyrir Ingólf, eðr leggja leyfi til, at vèr megum sækja hann tillaga.“ "Fýsa vil ek þik," kvað Þorsteinn, „at þú gefir at engan gaum, ok máttu at lögum gjöra þat.“ Óttar fór stefnuför til Hofs, ok stefndi Ingólfi til Húnavatnsþings, ok bjó mál til sóknar. Ok er Jökull spyrr þetta, gjörir hann sik óðan um, ok kvað slíkt mikil endemi,

ef þeir væru sekir gjörðir í átthaga sínum, ok kvað Þorstein eldast mjök. „Ok þótt vèr sèum eigi lögmenn, munum vèr eyða málit með axarhömrum.“ Ok er þing kom bað Ingólfr Þorstein at leggja ráð á málit, ellegar kvaðst hann mundi færa öxi í höfuð Óttari. „Nú vil ek,“ segir Þorsteinn, „at þú neytir goðorðsins, ok takir við,“ ok svá var gjört. Ok er í dóm kom málit, gengu þeir Ingólfr ok Jökull at dómum, ok hleyptu upp með höggum, ok fèll niðr málit. Litlu eptir þingit segir Óttar Ólafi mági sínum, at hann muni eigi una við þar at vera, ok seldi land sitt ok færði bú sitt suðr um heiði.

38. En eigi löngum tíma upp frá þessu, tók Þorsteinn sótt ok andaðist; ok þótt fyrri segi hèr lát Þorsteins en Þóris, þá dó Þórir þó litlu fyrri, en Jökull lifði lengst þeirra bræðra. Þorkell krafla var þrèvetr, er Þórir andaðist fóstri hans. Þá fór Þorkell til Þórorms ok var þar uppfæddr. Eigi ætluðu menn fást mundi jafngjöld Þorsteins ok bræðra hans, en þó þóttu synir hans vel stíga í hans fótspor, ok þótti konum Ingólfr vænstr, svá sem kveðit var.

| | |
|---|---|
| Allar vildu meyjar | Svá vil ek ok kvað kerling |
| með Ingólfi ganga | með Ingólfi dansa |
| þær er vaxnar váru, | meðan mèr tvær um tolla |
| vesöl kvaðst æ hver lítil. | tennr í efra gómi. |

Þeir bræðr skiptu arfi með sèr. Ingólfr bjó at Hofi, en Guðbrandr at Guðbrandsstöðum. Ingólfr átti Halldísi dóttur Ólafs frá Haukagili. Hún var yngri en Ásdís sú er Óttar átti, er móðir var Valgerðar ok Hallfreðar vandræðaskálds. Ingólfr fór at finna Valgerði jafnan er hann fór frá þingi eðr á

6*

þat, ok líkaði Óttari illa. Hún gjörði Ingólfi öll klæði, er bezt átti at vanda.

39. Nokkrum vetrum eptir fráfall þorsteins Ingimundar sonar fann Óttar, er hann reið af þingi í Bláskógaheiði mann sekan, er þórir nefndist, ok kominn austan úr fjörðum; kvaðst hafa sekr orðit um konumál, ok bað Óttar viðtöku. Óttar kvaðst mundi gjöra á því kost, ef hann færi sendiför eina. Hann spurði, hver hún væri. Óttar segir: „Ek vil senda þik norðr í Vatnsdal til Ingólfs, at þú sitir um líf hans eðr annarshvárs þeirra bræðra, því at úlíklegt er, ef at líkindum ferr, at þeir verði giptudrjúgir. Nú ef þú ferr mun ek veita þèr ásjá.“ Hann kvaðst til þess vel færr, „því eigi brestr mik áræði. Hann fór með Óttari, ok keyptu þessu saman, at hann skyldi drepa Ingólf eðr Guðbrand, ef hann næði honum heldr, en Óttar skyldi koma honum utan. Hann fór til Vatnsdals, ok kom til Hofs, ok var þar um nótt, ok bað Ingólf ásjá; kvaðst vera sekr. Ingólfr kvaðst eigi þurfa utanhèraðsmanna, ok kvað sèr slíka auðfengna, ok bað hann á burt víkja, ok kvað sèr illa á hann lítast. þórir fór á burt, ok kom til Guðbrands. Hann tók við honum, ok var hann þar um hríð. Einn morgun bað Guðbrandr hann taka sèr hest, ok gekk út, en þórir eptir. Ok er Guðbrandr kom á þröskuld, laut hann, en þórir veitti honum þá tilræði. Ok er hann heyrði öxin þaut, veik hann sèr hjá dyrunum, en þórir hjó í ásinn, er fram tók úr vindskeiðunum. Stóð öxin þar föst, en þórir hljóp á burt, en Guðbrandr eptir. þórir hljóp yfir árgil, þegar er hann kom

at, ok lá fallinn. Guðbrandr skaut eptir honum sverði, ok kom á hann miðjan, Guðbrandr hljóp yfir ána, ok var Þórir þá dauðr, ok kasaði hann þar. Skörð váru fallin í sverðit, ok eitt er leggja mátti á fingragóm, Brýnt varð at, ok síðan var hit bezta vápn. Guðbrandr fór at finna bróður sinn, ok sagði honum tíðindin, ok kvað þetta ráð Óttars. Lètu þá við slíku menn búast mega. Ingólfr kvað þetta mikil firn, ok riðu þegar suðr til Borgarfjarðar, ok báru þetta at Óttari. En hann hafði í mót, því þar var þá fjölmennt, ok náðu þeir honum ekki. Var þá leitað um sættir, ok sættust at því, at Óttar galt hundrað silfrs, en Þórir skyldi úgildr. Þat fylgði ok sætt þeirra, at Ingólfr skyldi úheilagr falla, ef hann kæmi at finna Valgerði, svá at Guðbrandr fylgði honum eigi. Þá mælti Ingólfr: „Til þess máttu ætla Óttar, ef fleiri farir verða úvingjarnligar til vár, þá muntu eigi fèbótum viðkoma, ok þèr munu goldin verða svikræðin.“ Hann kvað þat marga mæla mundi, at sakir væru til áðr en þetta gjörðist. Síðan skildu þeir.

40. Svartr hèt maðr, er skipi sínu kom á Mynþaks eyri. Hann var suðreyskr at ætterni, maðr mikill, sterkr ok úvinsæll, ok lítt við alþýðuskap. Hann kom á brotnu skipi. Ok sem menn vissu, hverr maðr hann var, vildu engir verða til at taka við honum. Fór hann um sveitir, unz hann kom til Óttars, ok bað hann viðtöku ok ásjár. Hann segir: „Úmaklega sýnist mèr til þín gjört, at veita slíkum manni sem þú ert ekki viðtöku, því þú ert maðr ekki lítilmótligr; ok hygg ek mèr sè traust at þèr

mikit." Hann kvað hann þess makligan. Svartr átti nokkut fè. Var hann með Óttari, ok eigi lengi áðr hann mælti til Svarts: „Ek vil senda þik norðr til Vatnsdals til Hofs. Maðr sá býr þar, er Ingólfr heitir, hann er sakadólgr minn, ok hefr gjört mèr margar skammir, ok fæ ek eigi rètt af honum, en hann er þó mikilhæfr maðr. En ek hygg þik gæfu til bera með minni tilstilli at hefna, því mèr lízt vel á þik." Svartr kvaðst verit hafa þar eigi þótti öllum einn veg; kvað ok líklegast, at hann gæti erindinu orkat. Sagðist verit hafa í víking ok einn í burt komizt. En með þeim hætti keyptu þeir saman, at hann skyldi höggva hönd eðr fót af Ingólfi, en drepa Guðbrand, ef hann fengi ekki náð hinum, en Óttar skyldi fá honum vetrarvist, ok koma honum utan. Svartr skyldi leita fyri sèr, ef hann kæmi eigi fram verkinu, en fara til vistar sinnar, ef framkvæmdi. Óttar fèkk sèr varning af skipi ok fèkk Svarti til meðferðar. Hann fèkk honum mann til fylgðar ok tvá hesta. Segir honum hverja leið honum er bezt at fara norðr ok norðan. Svartr ferr þar til er hann kom í Hvanndali. Hann tók þar af hestum sínum, ok bjó um varninginn, en hestar gengu á beit. Hann kom snemma at Hofi gangandi, var Ingólfr úti ok skepti spjót. Svartr hitti hann, ok segir sèr hafi seint farizt, kvað sèr horfna á heiðinni hesta tvá, ok kvað varning sinn liggja þar, kistu ok húðfat, ok bað Ingólf fá sèr menn til at leita með sèr, ok flytja varning sinn til byggða, kvaðst vilja flytjast norðr til Eyjafarðar, kvað sik verit hafa á Hrafna-

gili fyri nokkurum vetrum. Ingólfr kvað fátt manna á bænum, „en ek vil hvergi fara, ok verð burt í stað“. „Þá muntu fylgja mèr á götu til annars bæjar.“ Hann fór með honum á götuna, ok varaðist Ingólfr hann þó af hugboði sínu, því Svartr vildi æ síðar fara. Hann var girðr sverði, ok hafði spjót mikit í hendi þat var fjaðraspjót langskept ok vafit járni skaptið Svartr beiddist viðtöku, en Ingólfr hefði af varningi þat hann vildi. „Ertu víðfrægr maðr, ok sómir þèr at hafa útlenda menn, allra helzt ef eigi skortir fè til forgiptar.“ „Ekki er èk vanr“, segir Ingólfr, „at taka úkunna menn til mín. Gefast þeir margir allilla, ok ertu eigi til þess úlíkigr, því þú hefr illsligt bragð, ok vísaði honum skjótt af hendi, ok kvaðst engu vilja við hann kaupa, ok hvarf aptr.“ Svartr fór til Guðbrands, ok segir honum hina sömu sögu. Guðbrandr mælti: Eigi gefast nú vel þeir úkunnu menn; en sækja má ek láta varning þinn. En gjörum síðan sem sýnist um vistarfarit.“ Þeir fóru ok fundu varninginn. Ætluðu hestana burthlaupna. Þeir fundu þá skjótt. Guðbrandr hafði allt heim til sín, ok tók við Svarti. Sem þat spyrr Ingólfr, hitti hann bróður sinn, ok þótti úvarlig hans tiltekja, „ok vil ek hann fari burt.“ Guðbrandr segir, eigi muni sá maðr sèr til skaða ætlaðr, ok kvað hann eigi hafa sik líkligan til gjört síðan hann kom. Ingólfr segir: „Ekki lízt okkr þá einn veg, því mèr lízt maðrinn flugumannligr, ok illa mun hann reynast, ok vil ek ekki hann sè hjá þèr; því mèr segir illa hugr um hann, ok þyki mèr betr

hinn fyrri varinn.“ En þat varð ekki, ok var hann þar um vetrinn. En um várit, er sumar kom, færði Guðbrandr lið sitt í sel, ok var svá skipat, at húsfreyja reið einsömul, en Guðbrandr ok Svartr riðu einum hesti báðir, ok var Svartr á baki. En er þeir komu á mýrar þær, er nú heita Svartfellsmýrar, lág í hestrinn undir þeim, ok bað Guðbrandr Svart skreiðast aptr af hestinum; ok svá gjörir hann. Ok sem Svartr sèr Guðbrand sik eigi varast, þá snýr hann spjótinu. Þat sèr húsfreyja, ok mælti: „Varastu hundinn, er vill svíkja þik. Ok í því lagði Svartr Guðbrand með spjótinu undir hendina, ok þegar á hol. Guðbrandr fèkk brugðit sverðinu, ok slæmir eptir honum, ok hjó hann í sundr í miðju. Húsfreyja kom til sels, ok segir beggja þeirra líflat, ok þóttu ill tíðindi. Ingólfr spyrr þetta, ok segir farit hafa eptir hugboði sínu, ok bjó mál á hendr Óttari þegar til alþingis um fjörráð við sik ok bróður sinn. Ok er menn komu til þings var leitað um sættir. Var þat mjök torsótt við Ingólf. En sakir þess margir góðgjarnir menn áttu hlut at, ok hitt annat, at Ingólfr hafði eigi haldit sætt sína við Óttar um fundi við Valgerði, þá tók hann sættir, ok komu fyri fjörráð Guðbrands þrjú hundruð silfrs; skyldu þá ok niðr falla sættarrof við Óttar um Valgerðarmál. Skiljast nú við þetta ok váru sáttir. Ingólfr átti tvá sonu með konu sinni, hètu þeir Surtr ok Högni. Þeir váru báðir gjörfiligir menn. Ingólfr þótti mikill höfðingi, ok stíga vel í fótspor sínum föður um marga hluti. Ólafr á Haukagili tók þá mjök at eldast.

41. Útilegumenn váru mjök yfirgangsamir um þann tíma suðr ok norðr, svá náliga mátti engi á sínu halda. Eina nátt rændu þeir á Haukagili mat miklum, því þar váru nægtir hvervetna. Ólafr hittir Ingólf, ok segir honum. Ingólfr bjóst heiman við fimmtán menn. Ólafr bað hann vera vel varfæran, ok kvað meira varða, at hann kæmi heill heim, en hitt hvar matr sinn væri. Þeir riðu suðr á heiði, ok ræddu um ránit. Þjófarnir höfðu rænt til fimmtán hundraða. Þeir komu at sporum þeirra ok röktu þar til þeir villtust um, því sporin lágu á tvá vegu. Þeir skiptu þá liði sínu. Fóru 8 í annan stað, en 7 í annan, ok leituðu lengi. Þar váru sel skammt frá, ok fóru þeir þangat. Þá sáu þeir 18 hross hjá selinu, ok ræddu um, at þar mundu komnir þjófarnir, ok kváðu ráðligast at leita at förunautum sínum. Ingólfr kvað þat úráðligra, „því þeir mega þá ná til hellisins, því hann er skammt frá, ok eru þeir þá hólpnir, ef þeir fá hann, ok er vár ferð þá sljóflig, en eigi víst hvar várir menn eru". Ingólfr spratt þá af baki, ok í gil nokkut, er hjá honum var, ok þrífr upp hellur tvær vel miklar; lætr aðra fyri brjóst sèr, en aðra millum herða, en girðir at utan. Hann hefr Ættartanga í hendi, ok gekk at selinu. Þat var tvídyrat. Þat segja menn, at Ingólfr væri þar eigi fjölmennari en við annan mann. Þá mælti förunautr Ingólfs, at hann mætti gjöra fylgðarmenn sína við kunna. Ingólfr segist verja mundi dyrr meðan hann fyndi menn sína. Hann segist eigi mundi burt fara. Þyki mèr þínir ekki ofmargir. Ingólfr

vildi þegar inn ráða at þeim, ok bað hann fylgja sèr drengiliga. þeir lögðu þegar at honum, er hann kom inn, en honum hlífðu hellur þær, er hann hafði, ok sneiddu lögin af honum. Sóttu þeir þá at Ingólfi með öllu megni, en hann varðist alldrengiliga. þeir lögðu þegar at honum sterkliga. Hann reiddi þá Ættartanga, ok kom sverðit í höfuð þeim, er stóð á baki hans, ok þess, er fyri honum stóð, ok fengu báðir bana. þeir áttu snarpan bardaga, ok lauk svá at Ingólfr drap fimm menn, enda var þá fallinn fylgðarmaðr hans. Váru þeir þá komnir út úr selinu, en Ingólfr var sárr mjök. Komu þá at menn hans, en þjófarnir stukku burt, en þeir tóku ránit ok bundu á hesta, ok ráku svá norðr. Ingólfr lá í sárum vetr þenna, ok greri yfir. En um várit, er sumarhita tók, rifnuðu upp sár hans öll, svá þat leiddi honum til bana. Ok áðr Ingólfr andaðist bað hann sik grafa á holti einu öðrumegin er þeir váru grafnir frændr, kvað þá hugkvæmara Vatnsdalsmeyjum, ef hann væri nærri götu. Síðan andaðist hann. þat heitir Ingólfs-holt er hann var jarðaðr. Alþýðumenn hörmuðu mjök fráfall Ingólfs. Tólf vetr lifði hann eptir fráfall þorsteins föðr síns með mikilli virðingu. Óttar gipti Valgerði dóttur sína Stafhylzkum manni. En at Ingólfi önduðum var höfðingjalaust í Vatnsdal, því synir Ingólfs váru eigi til færir fyrir aldrs sakir at varðveita goðorðit. Var nú um leitað, hvernig fara skyldi. En þat váru lög í þann tíma, meðan erfingjar váru í úmegð, at sá skyldi af þingmönnum varðveita goðorðit, er bezt þætti til fallinn.

42. Þorkell krafla Þorgrímsson var bæði mikill ok sterkr. Hann var þá tólf vetra er þetta var tíðinda. Þorgrímr gekk ekki við faðerni hans, en hann var mikit frækiligri en skilgetnir synir hans. Þorkell silfri frá Helgavatni var hamrammr mjök ok margkunnigr. Hann var vellauðigr at fè, eigi vinsæll ok úþokkasæll af flestum mönnum, en þó virðr mikils. Þann sama dag, er fundr var stefndr at Kornsá um goðorðsmálit, mælti kona Þorkels silfra: „Hvat ætlar þú at gjöra í dag?“ Þorkell segir: „At fara til fundarins, ok vera í kvöld goðorðsmaðr.“ „Ekki vildi ek þú færir,“ sagði hún, „ef þú ætlar at verða yfirmaðr Vatnsdæla, því þèr mun þat eigi lagit verða, enda ertu eigi til þess felldr.“ Hann sagði „Í öðru skulu þín orð standa en eigi hèr um.“ Til þessa fundar ætlaði ok Klakka-Ormr ok Þorgrímr frá Kornsá dótturson Ingimundar. Þorgrímr þótti bezt til fallinn fyri frændsemi við þá Vatnsdæli, en þó skyldi þat til hlutfalls leggja, því at margir þóttust vel til fallnir. Þessi fundr var lagðr á einmánuði í Forsæludal at Klakka-Orms. Þorkel silfra dreymdi næstu nátt áðr en fundurinn var, ok segir konu sinni Signýju drauminn, at hann þóttist ríða ofan eptir Vatnsdal hesti rauðum, ok þótti hann trautt við jörð koma, „ok vil ek svá ráða, at rautt mun fyri brenna ok til virðingar snúast.“ Signý kona hans kvaðst annan veg snúa vilja, ok kvað hest Már heita, „en Már er mannsfylgja, ok kvað rauða sýnast, ef blóðugt yrði, ok má vera þú sèrt veginn á fundinum, ef þú ætlar þèr goðorðit, því

nógir munu þèr þat fyrimuna.“ Þorkell lèt sem hann heyrði eigi, ok bjóst vel heiman at vápnum ok klæðum, því hann var skartsmaðr mikill, ok kom í síðarsta lagi. Þorgrímr kom snemma dags, ok sat í öndvegi hjá Ormi, Hann gekk aldregi við faðerni Þorkels kröflu. Hann lèk sèr á gólfi með öðrum sveinum, ok var mikill ok sterkr ok manna fríðastr. Hann nam staðar hjá Þorgrími ok horfði á hann mjök lengi ok taparöxi er hann hèlt á. Þorgrímr spyrr, því ambáttarson sá starði á sik. Þorkell kvað eigi ofmikit sitt gaman, þó hann horfði á hann. Þorgrímr spyrr: „Hvat viltu til vinna, Krafla! at ek gefi þèr öxina, því ek sè þèr lízt vel á hana, ok hitt annat, at ek gangi við frændsemi þinni?“ Þorkell bað hann á kveða. Þorgrímr mælti: „Þú skalt setja öxi í höfuð Silfra, svá hann fái aldregi goðorðit. Þyki mèr þú sjálfr þá færa þik í ætt Vatnsdæla kyns. Þorkell kvaðst þat gjöra mundi. Þorgrímr leggr ráð til, at hann láti sem verst með öðrum börnum. Silfri sat svá jafnan um daginn, at hann studdi hönd undir kinn, en lagði fót á knè sèr. Þorkell skyldi hlaupa í saur, en aðra stund inn, ok koma við klæði Silfra, ok vita ef hann reiddist. Nú ræddu þeir um goðorðit, ok verða eigi ásáttir, vildi hverr sinn hlut fram draga. Þá leggja þeir hluti í skaut, ok kom jafnan upp hlutr Silfra, því hann var margkunnigr. Þorgrímr gekk fram, ok mætti Þorkeli kröflu í dyrum hjá sveinum, ok mælti: „Nú vil ek, at þú greiðir axarlaunin!“ Þorkell sagði: „Til axarinnar er ek allfús, ok má ek nú vel greiða verðit, þó

eigi sè sú vara til sem þú vildir.“ Þorgrímr sagði: „Fleira mun taka verða en vöru eina,“ Þorkell mælti: „Viltu ek drepi Silfra?“ „Já!“ kvað Þorgrímr. Þá var komit goðorðit í hlut Silfra. Þorkell krafla kom innar í stofu, ok kom við klæði Silfra en hann hratt honum frá sèr, ok kallaði hann ambáttarson. Þorkell hljóp upp í sætið hjá honum ok keyrði taparöxina í höfut honum. Var Þorkell þegar dauður. Hann kvað sik eigi ofmikit til vinna axarinnar. Þorgrímr kvað sveininn hafa verit illa beiddan, „enda hefr hann eigi vel staðizt. Hefr piltr þessi nú sýnt sik Vatnsdæla kyns, ok mun ek ganga við faðerni þínu.“ Síðan tók Þorgrímr goðorðit, ok var kallaðr Kornsárgoði. Sætzt var á víg Silfra, því synir hans váru ungir. Þorkell krafla fór heim með föður sínum, ok beiddist at fara utan, ok vita hvat tiltækist, ef hann hitti Sigurð jarl Hlöðvisson, frænda sinn. Þorgrímr kvað hann skyldi hafa þat er hann vildi.

43. Björn hèt austmaðr, er skip hafði til hafs búit til burtsiglingar. Með honum fór Þorkell krafla utan. Þeir komu við Orkneyjar. Þá var Sigurðr jarl í eyjunum. Björn var jarli kunnigr, ok leitaði viðtöku handa Þorkeli, ok kvað hann góðan mann ok mikilsverðan, ok mjök fyrir íslenzkum mönnum. Jarl segist mundi taka við honum, ok spurði at ætt Þorkels, en hann segir hver væri. Jarl hugleiddi þat lítt. Síðan tók hann við þeim. Einlyndr þótti jarlsmönnum Þorkell vera. Aldregi gekk hann úr rúmi sínu nema jarl gengi. Hann var honum einum fylgisamr. Eitt sinn um várit

fór hirðin til leiks, en jarl sat eptir með fá menn, ok mælti: „þú ert staðfastari en flestir menn, þorkell! er þú ferr eigi til leika. En hvat segir þú mèr af ætterni þínu?“ þorkell taldi þá ætt sína, ok vaknaði jarl þá við, ok mælti: „þú munt vera mèr skyldr, ok ertu seinn í slíkum sögnum.“ Jarl jók þá virðing hans, ok um sumarit eptir ferr jarl í hernað ok spurði þorkel, hvárt hann vildi fara með. Hann kvaðst fara vilja ef jarl vildi. þeir herjuðu víða um sumarit; ok eitt sinn, er hann gjörði upprás í Skotland, ok kom aptr til skipa, spurði jarl, hvat margra manna vant væri, var þá at hugat, ok var þorkels eins saknat. Hann hafði verit á skipi jarls. þeir kváðu engan skaða um svá tómlátan mann vera. Jarl bað fara at leita hans þegar í stað, ok svá var. þeir fundu hann í skógarrjóðri við eik eina. Tveir menn sóttu at honum, en fjórir lágu dauðir. Á burt hlupu atsóknarmenn þorkels, þá jarlsmenns komu til. Jarl spyrr hvat þorkel hafði dvalit. þorkell segir: „þat hef ek heyrt yðr mæla, at renna skyldi frá skipum á land upp, en aldregi til skipa, svá hverr hlypi frá öðrum.“ Jarl svarar: „þú segir satt frændi, ok skal svá vera hèðan af, en sá skal eigi hlutskipti taka, sem rennr frá merki af landi ofan.“ Jarl spurði, hvárt þat væru landsmenn, sem dauðir váru hjá honum, eðr hans menn. þorkell kvað þat landsmenn, ok sagðist farit hafa hjá kastala einum, ok þar ek gekk hröpuðu úr steinveggnum steinar nokkurir. þar fann ek fè ekki mjök lítið. þetta sáu kastalamenn ok hlupu eptir mèr.

Var þá fundr várr sem sjá mátti.“ Jarl tjáði þeim þá frækleik hans. Jarl spurði hvat mikit fè þat væri. Hann kvað vera 20 merkr silfrs. Jarl kvað hann eiga þann fjárhlut, en engan annan. Þorkell kvað jarl eiga ok allt sitt hlutskipti. Jarl sagði þeir báðir eiga skyldi, ok þat kom eigi í skipti. Jarl lagði mikla virðing á Þorkel fyri þessa för. Hann var með jarli tvá vetr. Þá fýstist Þorkell til Íslands, ok sagði þat jarli. Jarl sagði: „Þat er líklegt, at frændum þínum verði sæmd at þèr.“ Hann gjörðist handgenginn jarli. Jarl gaf honum öxi gullrekna ok góð klæði, ok kvaðst skyldi vera vinr hans, ok gaf honum kaupskip með farmi, sem hann kjöri. Gullhring sendi hann Þorgrími, til frelsis Vèreiði, er vá hálfa mörk. Vèreiði sendi hann allan kvennbúnað góðan fyri frændsemi. Síðan lèt Þorkell í haf ok fórst honum vel. Hann kom skipi sínu í Húnavatnsós. Þorgrímr Kornsárgoði reið til skips, ok fagnaði syni sínum, ok bauð honum til sín. Þat þág hann. Þorgrímr gaf Vèreiði frelsi, svá sem jarl hafði orð til sent. Litlu síðar tók Þorgrímr sótt ok andaðist, en synir hans skilgetnir tóku arf allan sem lög stóðu til. Þórormr, bróðir Klakka-Orms föður Þorgríms föður Þorkels, fór á fund Þorkels, ok bauð honum til sín; þat þág hann. Þorkell var lyndisgóðr maðr ok seinþreyttr til reiði.

44. Þorgils hèt maðr, er bjó á Svínavatni. Hann átti sèr húsfreyju, ok með henni fjóra sonu, ok eru tveir nefndir, Þorvaldr ok Ormr. Glæðir hèt bróðurson Þorgils. Hann var systurson Guðmundar hins ríka frá Möðruvöllum. Glæðir var á-

burðarmaðr mikill, málugr ok úvitr ok hinn mesti gapuxi. þeir feðgar þorgils ok þorvaldr fóru til Klakka-Orms at biðja Sigríðar dóttur hans. Var því vel svarat, ok ákveðin brullaupsstefna at vetrnáttum í Forsæludal. þar var fámennt heima, en starf mikit, bæði at sækja sauði á fjall ok svín ok margt annat at gjöra. þorkell bauðst at fara með verkmönnum. Ormr kvaðst þat vilja. þeir fóru síðan, ok sóttist þeim seint, því at fèit var styggt. Sótti engin knáligar en þorkell. þat þótti torsóttligast at eiga við svínin. þorkell var úhlífinn, ok bauðst til þess sem öðrum þótti illt at gjöra, ok er þeir skyldu búa sèr vistir, mælti þorkell: „Vel mun fallit at taka einn grísinn oss til matar." þorkell tók grísinn, bjó til borðs. Allir urðu at því sáttir. þorkell var fyrir þeim um alla liðsemd. þeir komu heim. Ávaldr hèt maðr, er var með Klakk-Ormi. Hann var Ingjaldsson. Hann var umsýslumaðr, en Hildr kona hans fyri innan stokk. Hún var dóttir Eyvindar sörkvis. Litlu áðr en brúðkaupit skyldi vera, kom Glæðir austan úr fjörðum, ok frètti nú þessa ráðstöfun. Glæðir kvaðst ok hafa spurt önnur tíðindi, þat er fjallferð þorkels kröflu. Hann var valdr til svínageymslu. Kvað þat ok makligast um ambáttarsyni, ok kvað hann drepit hafa grís þann, sem drukkit hafði spenann náttina áðr, ok legit hjá galta, því hann kól sem aðra hundtík. þorgils mælti: „þetta er heimskuligt gaman þú hefr, ok er sagt at þorkell hafi svá farit sem honum sómir bezt þar ok annarstaðar." „Úvirðugliga þyki mèr

tekizt hafa," segir Glæðir. Nú koma þeir til brúðkaupsins. Þá mælti Þorkell til Orms fóstra síns: „Ek mun vinna mönnum beina, ok hafa starf." Ormr kvaðst þat gjarnan vilja. Ormr ok Þorkell veittu mönnum vel ok stórmannliga. Þeir Ormr sátu í öndvegi hinu úæðra megin ok hans menn. Þorkell gekk mjök um beina, ok var lítillátr í sinni þjónustu. Þeir úr Svínadal hlóu at honum mjök, ok kváðu ærit sterkan ambáttar soninn. Þorkell kvað meiri kurteysi, at láta æ gleði ok gamanræður koma í móti beinleika en skaup ok atyrði.. Glæðir kvað hann mörg stórvirki unnit hafa, „ok máttu af því stórliga láta þar þú fyri skemmstu drapst grísinn, þann er eina nátt hafði drukkit spenann, ok er þat þín iðn." Þorkell segir: „Fá eru mín stórvirki, Glæðir! en þó munu fleiri en þín, ok er þèr ú-kylt um þetta at tala." Glæðir hló at Þorkeli svá at Þorvaldr heyrði, ok kvað hann fimastan um matreiðslugjörðina. Þorvaldr kvað Glæði úvitrliga mæla; ok um kveldit fóru menn til sængr eptir vana.

En um morguninn stóð Þorkell snemma upp, ok gekk í eitt útibúr, ok hvatti öxina jarlsnaut. Gekk síðan í anddyri. Þar var þá fyri Glæðir ok hans menn; tóku handlaugar, ok gengu menn hjá þeim með slátrtrog. Glæðir mælti til Þorkels: „Nær muntu verit hafa búverkunum í morgun, ok láttu oss njóta hans galta, ok láttu þat feitasta koma fyrir oss kompána. Þat hæfir vel ambáttar syni." „Mun eigi vel fallit," segir Þorkell, „at brytja fyrst höfuðit, ok velja svá stykkin þar eptir fyri þik." Ok aldregi veit ek, at þú ert svá frekr á feitæt-

inu, at torsótt sè at fylla þik.“ þann dag skyldi frá boðinu ríða. þorgils spurði, hvárt búinn væri dagverðr. þorkell kvað búit, þá soðit væri, ok kvað skammt til þess, ok gekk út verkmanna dyr ok inn aðrar, ok tók öxi sína, ok stóð hjá dyrum þá Glæðir gekk út. Gekk þorkell eptir honum, ok hjó til hans í höfuðit, ok hafði Glæðir þegar bana. þorkell hljóp út norðrdyr, því þeir váru fyri suðrdyrum. Matr stóð um allt húsit. þorgils var fjölmennr, ok hlupu menn hans um húsit, ok hyggja at þorkell skuli eigi út komast, ok ætla at hafa hendr á honum. þorkell hljóp um setin, en skot váru um húsit ok lokhvílur fyri framan, ok úr þeim mátti hlaupa í skotið. Hann leitar þangat sem konur sátu ok földuðu sèr. Hann hljóp þar at er Hildr var fyri. Hún spyrr, því hann færi svá. þorkell segir henni allt sem komit var, en hún bað hann fara í skotið hjá sèr, ok svá gjörir hann. Komst þorkell þar út. þorgils segir mönnum sínum: „Snúum þar at sem konurnar eru fyri, því mèr þótti sem maðr mundi þangat hlaupa.“ Hildr tók öxi í hönd sèr, ok kvað eigi skyldi einn af sèr taka. þorgils hyggr þorkel þar nú vera muni, ok biðr bera klæði at þeim, ok svá var gjört, ok fannst þorkell eigi. þorgils sá, at þetta var eigi nema prettr ok dvöl, ok fór út síðan. Ok er þeir komu út, þóttust þeir sjá svip mannsins niðr við ána. þorgils bað leita þangat, ok svá var gjört, ok fannst hann eigi. þorkell vissi, at þar var hellir við ána, ok þar faldist hann, ok heitir nú Kröfluhellir.[a] þeir þórormr ok Klakk-Ormr leituðu um sætt-

ir. Eigi vildi Þorgils sættum taka, en þó varð eigi brugðið þessum ráðahag, ok hótaði Þorgils því, at mannhefndir skyldu koma fyri víg Glæðis. Þórormr leiddi brúðmenn úr garði, ok leitaði með jafnaði um sættir ok fèkk þó ekki, ok svá skyldu þeir. Þorkell var ýmist þann vetr at Kornsá með bræðrum sínum, eðr með frændum sínum öðrum, því allir vildu veita honum nokkra ásjá, ok hugðu gott til, ef nokkurr yrði þroski hans í þeirri sveit, svá eigi settust þar utanhèraðsmenn niðr, þeir yfirráð hefði yfir þeim; því fóru Vatnsdælir at leita honum trausts til Þórdísar spákonu, er bjó á Spákonufelli. Hún var mikils virt ok margkunnandi. Báðu hana ásjár ok fulltingis um mál Þorkels, ok kváðu þar mikit undir komit, at hún legði til nokkut ráð, svá Þorkell kæmizt frá þeim vanda. Hún kvað svá vera skyldi. Þorgils fór at hitta Guðmund hinn ríka, ok kvað honum skyldast at mæla eptir frænda sinn, „er mèr ok skylt at fylgja þèr hèr til.“ Guðmundr mælti: „Eigi þyki mèr málit svá hægt, því ek hygg, at Þorkell verði mikilmenni, eu frændr margir til aðstoðar; en mèr hefr flutt verit, at tiltekjur Þorkels væri eigi fyri sakleysi. En nú muntu til búa málit, en ek mun við taka í sumar á alþingi,“ ok skildu at því sinni. Þorgils bjó málit til alþingis, ok stefndi Þorkeli eptir lögum. Vatnsdælar fjölmenntu mjök, ok svá hvárirtveggju. Þorgils reið til þings með mikla sveit manna. Þorkell var ok á þingi með frændum sínum. Þar var ok Þórdís spákona, ok átti ein sèr búð ok hennar menn. Tók

Guðmundr við málinu. Þeir Vatnsdælar buðu sættir. Guðmundr vildi eigi utan sektir. Þórormr hitti Þórdísi, ok rèðst um við hana, því hún var forvitra ok framsýn. Hún var tekin til þess af mörgum at gjöra um stórmál. Hún mælti þá: „Fari Þorkell hingat til búðar minnar, ok sjáum hvat í gjörist,“ ok svá gjörði Þorkell. Þórdís mælti við Þórorm: „Far þú ok bjóð Guðmundi enn sættir, ok þeir láti sèr nægja, at ek gjöri um málit. Þorkell gaf Þórdísi 2 hundruð silfrs. Þórormr bauð dóm Þórdísar á málinu, en Guðmundr neitti, ok kvaðst eigi taka vilja fèbætr. Þórdís mælti, þá hún þat vissi: „Ek ætla mèr engan vanda á vera við Guðmund; fyrst hann vill eigi hlýða mínum dómi, mun hann því hafa minni sæmd af málinu.“ Síðan mælti hún til Þorkels: „Far þú nú í kufl minn hinn svarta, ok tak stafsprotann í hönd þèr, er Högnuðr heitir; eðr muntu þora at ganga í flokk Guðmundar við svá búit?“ Hann kvaðst þora mundi með hennar ráði. Hún svarar: „Hættum til þá! Nú skaltu ganga til Guðmundar, ok drepa sprotanum þrem sinnum á vinstri kinn honum. Eigi sýnist mèr þú bráðfeigligr, ok vænti ek at dugi.“ Hann komst í flokk Guðmundar, ok komst allt til hans, ok gat á leið komit því honum var boðit. Nú frestaðist framsókn sakarinnar, ok dvelst málit. Þorgils mælti: „Því gengr eigi fram málit?“ Guðmundr kvað brátt greiðast mundu; en þat varð eigi, ok dvaldist stundin, ok ónýttist málit til sóknar. Þórdís hitti Vatnsdæla, ok bað þá ganga at dómum, ok bjóða fè fyri manninn,

„því má vera, nú taki þeir, ok lúkist svá málit. Þeir gjörðu svá. Gengu til dóma, hittu Guðmund, buðu sættir ok fèbætr. Guðmundr segir: „Eigi veit ek hvat þèr vilit bjóða, en mikils mun ek þat virða í málinu, er sá var veginn, sem mælti til úhelgi sèr.“ Þeir sögðust vel vilja bjóða fyri hans sakir, ok báðu hann til mæla. Ok er hann skyldi í hvert efni komit var málinu, ok ekki mátti sækja til laga, tók hann sjálfdæmi af Þórormi at gjöra fè slíkt, er hann vildi, at undan skildum utanferðum ok hèraðssektum. Var þá handsalat niðrfall á sökum. Þá sendi Þórdís Þorkel í annat sinn til Guðmundar at láta koma stafsprotann á hægri kinn honum, svá gjörði hann. Þá tók Guðmundr minnit, ok þótti kynligt, at þat hafði frá honum horfit. Guðmundr gjörði hundrað silfrs fyri víg Glæðis, ok fèllu svá niðr gagnsakir, ok guldu þau Þórormr ok Þórdís allt fèit, ok skildu sáttir. Þorkell fór til Spákonufells með Þórdísi. Þorgils mælti til Guðmundar: „Hví skipaðist svá skjótt hugr þinn í dag?“ Guðmundr sagði: „Því at ek kunni eigi orð at mæla frá munni, því var ek tregr, ok má vera, at við ramman væri reip at draga.“ Fóru svá heim af þingi.

45. Vatnsdælar efldu mjök Þorkel kröflu til virðingar. Þeir báðu konu til handa honum, ok goðorðit lagðist til hans, því þeir Surtr ok Högni Ingólfssynir váru þá annarr ellefu vetra en annarr fimmtán vetra ok náðu þeir eigi staðfestum sínum af Þorkeli. Var Hofsland keypt til handa honum, ok gjörðist Þorkell höfðingi Vatnsdæla.

Lið Óttars dreifðist norðr til sveita, ok var eigi at því gaumr gefinn. Hallfreðr ok Galti synir Óttars fóru norðr ok enn fleiri barna hans. Opt kom Hallfreðr til Skegg-Ávalda, ok talaði við dóttur hans, er Kolfinna hèt. Þeirrar konu fèkk Grís Semingsson, en þó lèk sama orð á með þeim, sem sagt er í sögu hans. Ok eitt sinn er hann kom út því hann var farmaðr, en Grís var á þingi, kom Hallfreðr þar Kolfinna var at seli, ok lág hjá henni. Sem Grís vissi þat, líkar honum stórilla. Hallfreðr fór utan samsumars. Á leiðmóti í Vatnsdal var fjölmenni mikit, ok tjölduðu menn búðir því vera átti tveggja nátta leið. Þorkell átti búð mesta ok fjölmennasta. En Skegg-Ávaldi átti búð saman ok hans son Hermundr, ok er Galti Ottarsson var genginn erinda sinna mætti hann Hermundi: en hann minntist á sakir þær, er Hallfreðr hafði gjört, ok hljóp at Galta ok drap hann. Hljóp síðan í búð föður síns. Ok sem Þorkell spyrr vígit spratt hann upp með sveit sína, ok vill hefna. Hildr stóð í dyrum, móðir Hermundar, ok mælti: „Hitt er nú Þorkell betra ráð at hlaupa eigi svá skjótt, ok var þér þat í hug eitt sinn er vit fundumst, at þú mundir eigi drepa son minn fyrir augum mèr. Nú er fleira í komit en þá vissum vèr ván.“ „Gakk úr búðinni,“ kvað Þorkell, „ok muntu eigi sjá son þinn höggvinn fyrir augum þèr.“ Hún skildi þá raunar, hvat hann mælti til hjálpar manninum, ok þótti skörugligt hans úrræði. Tók hún síðan búnaðinn af höfði sèr ok bjó hann með ok settist í rúm hans, at eigi gengi fleiri konur út en ván var.

þorkell bað þær skunda ok þrengdist at þeim, ok sagði: „Standit eigi svá, því at ærin er þó raun konunnar, at hún sjái eigi manninn höggvinn, eðr heyri til hans. þeir vildu inn hlaupa ok drepa Hermund. þorkell fór í búðardyrnar ok mælti: „Eigi hæfir, at vèr drepum hèraðsmenn vára sjálfir ok þingmenn, ok sættumst heldr. Ok var þá um sættir talat milli þeirra. Ok var svá til þuklat, at hvárirtveggju undu vel við sinn hlut. Greiddust bætr svá miklar, at þeir váru vel sæmdir. Leysti þorkell þetta mál sèr af hendi með drengskap. Öllum málum var til hans skotit, um hèraðit, því hann þótti beztrar náttúru í Vatnsdæla kyni annarr maðr en þorsteinn Ingimundarson.

46. Nærri þessum tíma kom út Friðrekr byskup ok þorvaldr Koðránsson, er kallaðr var hinn víðförli. þessu næst kom út annat skip, ok váru þar á tveir berserkir, er hètu Haukr hvárrtveggi. þeir urðu úvinsælir, því þeir buðu mönnum nauðung til kvenna eða fjár, ella buðu þeir hólmgöngu. þeir grenjuðu upp sem hundar ok bitu í skjaldarrendr. þeir óðu eld logandi berum fótum. þeir byskup ok þorvaldr fóru með nýjan sið, at bjóða mönnum aðra trú en sú hèr var áðr. þeir váru á Giljá hinn fyrsta vetr. Landsmenn styggðust við þeim ok nýgjörningum, er þeir byskup fóru með. Koðránn tók trú ok skírn í fyrsta lagi, ok kona hans. Ólafr á Haukagili var þá svá gamall at hann lá í rekkju ok drakk af horni. At vetrnáttum bauð Ólafr til sín vinum sínum einkum þorkeli, mági sínum. þeir byskup ok þorvaldr váru

þar. Lèt þorkell þá vera eina saman í húsi, því þeir höfðu annan sið. Hinn fyrsta aptan veizlunnar var sèn ferð berserkjanna. Var kvítt mjök við þeim. þorkell spyrr byskup, ef hann vill ráð til leggja, at berserkirnir fengi bana. Hann bað þá taka við trú ok skírast, en hann kvaðst mundi afráða illmenni þessi. þorsteinn mælti: „Allt er þá nær er þèr görit jarteiknir. Hèr með bauð byskup ok mælti: „Látið gjöra elda þrjá á miðju gólfi í skálanum. Ok svá var gjört. Síðan vígði byskup eldana ok mælti: „Nú skal skipa bekki af mönnum, sem beztir eru áræðis, með lurka, því þá bíta eigi járn, ok skal svá berja þá til bana. þá gengu þeir nafnar inn, er þeir komu, ok óðu eldinn fyrsta ok annan, ok brunnu mjök, ok urðu hræddir af brunanum, ok vildu þegar at bekkjum. Síðan váru þeir barðir til bana, ok urðu færðir upp með gili því, er síðan heitir Haukagil. Byskup þóttist nú kominn til kaups við þorkel, at hann tæki trú ok lèti skírast. þorkell kvaðst eigi aðra trú hafa vilja en þeir þorsteinn ok þórir fóstri hans haft höfðu. „þeir trúðu á þann, sem sólina hefr skapat, ok öllum hlutum ræðr.“ Byskup sagðist þá sömu trú boða, ok með þeirri grein at trúa á einn föður, son ok helgan anda ok láta skírast í vatni í hans nafni fyri Jesum Kristum. þat þótti þorkeli mest af bregða, er í vatni skyldi skírast eðr þvást, ok kvaðst eigi nenna at hafa þessa breytni, en kvaðst þó hyggja, sá mundi guð, ok þessi skipan mundi hèr viðgangast. „Ólafr bóndi, mágr minn, er gamall. Hann skal trú þessa taka ok þeir sem vilja, en ek mun

bíða um tíma.“ Síðan skírðist Ólafr ok andaðist í hvítaváðum. Enn váru skírðir fleiri menn at þeirri veizlu. Þorkell var skírðr, þá kristni var lögtekin á Íslandi ok allir Vatnsdælar. Þorkell var mikill höfðingi. Hann lèt gjöra kirkju á bæ sínum, ok hèlt vel trú sína.

47. Tveir bræðr bjuggu at Engihlíð í Langadal Fastólfr ok Þróttólfr. Þeir váru miklir fyri sèr. Þeir tóku við manni til ásjár, ok vildu hann hafa í leynum, meðan þeir færu til þíngs, á Kili skammt frá Reykjavöllum, en þeir mundu lúka málum hans. Aðrir tveir bræðr bjuggu at Móbergi í Langadal, ok hètu Húnrauðr ok Úlfhèðinn, synir Vèfreiðar Einars sonar hins gamla. Úlfhèðinn var vinsælli þeirra bræðra. Þórólfr hèt maðr, er kallaðr var leikgoði. Hann var með þeim bræðrum. Úlfhèðinn var mikill vinr Holmgöngu-Starra, ok þat segja menn, þá er Þórir hinn illi skoraði á hann til holmgöngu, at Úlfhèðinn færi með honum til hólmstefnunnar; ok í þeirri ferð gjörði at þeim veðr illt, ok meintu þeir vera gjörningaveðr Bárðr hèt maðr ok var kallaðr styrfinn, hann fór með þeim. Þeir báðu hann aftaka veðrit, því hann var margkunnigr. Hann bað þá handkrækjast ok gjöra hring. Síðan gekk hann andsælis þrisvar, ok mælti Írsku, ok bað þá já við kveða. Síðan veifði hann gizka til fjalls, ok tók þá af veðrit. Þeir bræðr af Engihlíð fóru til þings, sem fyrr er ritað, en maðrinn var í Þjófadal á meðan, því þeir meintu þá mundi minna fè goldit, ef hann færi eigi sjálfr. Þeir riðu ok til þings Húnrauðr ok Þórólfr leikgoði. Hross hlupu

frá þeim skammt frá Reykjavöllum, ok leituðu víða ok fundu eigi. þeir sáu mann skammt frá sèr, ok ætluðu vera mundi illmenni. Hlupu at ok drápu hann, því þeir hugsuðu hann mundi tekit hafa hross þeirra, ok frèttust eigi fyrir. Riðu síðan til þings, ok sögðu þeim bræðrum þróttólfi ok Fastólfi. þeim líkaði stórilla, ok beiddust bóta fyri. Kváðust sætzt hafa við frændr hins vegna, ok frið tekit, ok síðan goldit fè fyrir hann. Húnrauðr kvaðst ætla at vera mundi önnur fègjöld til skyldari, ok riðu með þat af þingi. þeir bræðr keyptu land á Kólkumýrum er í Holti heitir. þorfinnr hèt maðr, er bjó at Breiðabólstað í Vatnsdal, frændi þeirra. Hann átti ferð út á Skagaströnd, ok svá bar til at þórólfr leikgoði fór út þangat ok Úlfhèðinn með honum, ok er þeir komu til Breiðavaðs á Blöndu, riðu þeir þorfinnr ok bræðrnir Fastólfr ok þróttólfr seinna nokkut, ok kváðu vel til fallit at finna Úlfhèðinn, „því at þeir drápu mann okkarn í sumar, ok skal ríða eptir þeim.“ „Eigi mun ek eptir ríða,“ kvað þorfinnr. Ok svá var. Síðan riðu þeir bræðr eptir í ákefð. þetta sèr þórólfr leikgoði, ok mælti: „Ríðum undan hart, hèr fara þeir bræðr eptir okkr.“ „Nei,“ kvað Úlfhèðinn. „þat gjöri ek eigi, því at þá kalla þeir mik renna.“ þórólfr hleypti út á ána, en þeir bræðr unnu á Úlfhèðni, ok lá hann þar eptir. Síðan riðu þeir bræðr aptr, ok sögðu þorfinni tíðindin. Hann kvað úmakliga gjört við góðan dreng, ok fór hann heim í Vatnsdal. Úlfhèðinn var særðr til úlífis. Húnrauðr fór eptir honum, bróðir hans ok flutti hann heim, ok bað

hann Húnrauð bróður sinn at sættast á mál þessi eptir sik, ok kvað eigi mundi hefnda auðit verða, „því ek minnist nú á ferð hina fyrri, ok veit ek þann engan sóttdauðan hafa orðit, er í þeirri för var.“ Ok síðan andaðist Úlfheðinn. En Húnrauðr lèt illa við sáttum, ok bjó málit til alþingis. þorfinnr bauð sættir ok fèbætr, en Húnrauðr kvaðst eigi vilja nema sektir þeirra, ok svá varð. Riðu við þat af þingi. þeir bræðr gjörðu virki mikit á Holti á Kólkumýri, ok var Húnrauði torsótt at sækja þá. Skúmr hèt leysingi einn. Hann hafði aflat fjár, ok var orðinn auðigr. Húnrauðr eyddi fyrir honum, ok fór Skúmr utan, ok kom til Noregs, ok fór norðr í þrándheim, ok dvaldist þar um hríð, ok fèkk stórfè, ok varð auðigr í annan tíma. Húnrauðr eyddi öllum peningum sínum, ok svá þeim er Skúmr hafði átt svá at hann varð náliga fèlaus. Hann fór á fund þorkels Vatnsdælagoða, ok sagði honum sín vandræði. þorkell mælti: „Illt ráð hefr þú upp tekit at taka eigi fèbætr eptir bróðr þinn, svá sem hann sagði þèr fyrir, at þèr mundi eigi annat hlýða, ok hefr þú nú hvárki fè nè hefndir. En fyrir því þú hefr sótt mik heim at ráðum, þá mun ek fara til með þèr ok leita um sættir.“ Síðan hitti þorkell þá bræðr, ok spurði, hvárt þeir vildu sættast við Húnrauð, ef kostr væri. En þeir lètu seinliga við, ok kváðu honum nú eigi betra at sættast, en þá honum var boðit. þorkell mælti: „Nú skulu þèr annathvárt gjöra fara utan sem mælt var eðr sættast, ella mun ek engi ráð til með ykkr leggja.“ þeir kváðust hans orð skyldu

mikils virða, ok viljum vèr þik sízt í mót okkr. Þeir foru nú utan, ok komu í Þrándheim. Þá mælti Þróttólfr: „Eigi skiptir þat jöfnu, at Húnrauðr góðr drengr skal vera fèlauss orðinn, ok hlotit þat mest af okkr, en þræll hans Skúmr orðinn auðigr sem Njörðr. Síðan fóru þeir, ok drápu hann, ok tóku fè hans allt, ok sendu Húnrauði. Litlu síðar kom Þróttólfr út, ok fór á fund Þorkels kröflu, ok bað hann at fylgja at sætt þeirra Húnrauðar. Þorkell kvað svá vera skyldi. Hann fór síðan á fund Húnrauðar; ok með vitrleik sínum ok góðum vilja sætti hann þá heilum sáttum, svá at hvárirtveggju undu vel við hans ummæli. Þorkell varð gamall maðr, ok þá er hann lá í banasótt sinni, stefndi hann til sín vinum sínum, frændum ok þingmönnum. Þorkell mælti þá: „Ek vil yðr kunnigt gjöra, at ek hefi fengit sjúkdóm nokkurn, ok þyki mèr líkligt hann muni skilja okkar samvistir, ok hafi þèr vel hlýtt minni forsjá, ok verit mèr hlýðnir ok eptirlátir. Síðan bað hann virkta öllum sínum frændum ok virkta vinum. Bjóst Þorkell mjök kristiliga við sínum dauða eptir því sem honum sómdi, því hann var vel kristinn maðr, ok rækti vel trú sína. Eptir þat andaðist hann, ok varð mesti harmdauði þingmönnum sínum ok öllum hèraðsmönnum, því hann þótti hinn mesti hèraðshöfðingi ok mikill giptumaðr, ok var líkastr hinum fyrri Vatnsdælum svá sem Ingimundi ok Þorsteini. Þó bar Þorkell þat yfir, at hann var rètttrúaðr, ok elskaði guð. Ok gjörum vèr þar enda Vatnsdæla sögu.

---

